»Komdu nær«, sagði hún, »seztu við eldinn og láttu þorna á þér vosklæðin«.

»Hér er slæmur súgur«, sagði kóngssonurinn, og settist niður á gólfinu.

»Verra verður þó þegar synir mínir koma heim«, ansaði konan; »þú ert kominn hér í helli vindanna; synir mínir eru hinir fjórir vindar heimsins. Skilurðu það?«

»Hvar eru synir þínir?« spurði kóngsson.

»Já, það er nú ekki svo auðvelt að svara, þegar heimskulega er spurt«, sagði konan. »Synir mínir flakka lausu við, þeir eru í knattleik og hafa skýin fyrir leiksoppa þarna uppi í hásalnum«, og um leið benti hún upp í loftið.

»Nú, er það svo!« sagði kóngssonur. »Þér eruð annars nokkuð hastar í máli og ekki eins þýðar eins og það kvenfólk, sem eg er vanur að sjá í kringum mig«.

»Já, það hefir nú ekki öðru að gegna. Eg verð að vera hörð, ef eg á að geta haldið drengjum mínum í skefjum; en það get eg, þó þeir séu baldnir. Sérðu pokana fjóra, sem hanga þarna á veggnum? drengirnir hafa eins mikinn beig af þeim eins og þú hafðir af sóflinum bak við spegilinn. Eg tek þá í bóndabeygju, skal eg segja þér, og svo sting eg þeim í pokann. Eg hefi ekki neinar sveiflur á því; þarna verða þeir að dúsa, og komast ekki út til að stroka fyr en mér sjálfri þóknast. En þarna kemur nú einn þeirra«.

Það var Norðri, norðanvindurinn, sem inn kom og fylgdi honum nístings kuldi; stórgerð haglkorn skoppuðu eftir gólfinu og stóð kafaldsstroka um hann allan. Hann var í bjarn-

skinnsbrókum og bjarnskinnsúlpu og hafði togað selskinnshettu niður fyrir eyru; langir frostdinglar héngu niður úr skeggi hans, og hvert haglkornið af öðru hrundi niður af úlpukraga hans.

»Farðu ekki strax að eldinum«, sagði kóngssonurinn. »Þú gætir hæglega fengið frostbólgu í andlitið og hendurnar.

»Frostbólgu!« át Norðri eftir honum. »Frostið er mitt mesta yndi. En hvaða skrapagrind ert þú? hvernig ert þú kominn í helli vindanna?«

»Hann er gestur minn«, sagði gamla konan, »þyki þér vansvarað, þá er þér til reiðu að fara í pokann. Skilurðu mig?«

Þetta gerði það sem dugði og sagði þá Norðri hvaðan hann kæmi og hvar hann hefði hafzt við í nærfelt heilan mánuð.

»Eg kem frá heimskautshafinu«, sagði hann, »eg var við Bjarney með rússnesku rostungsveiða-mönnunum. Eg sat og svaf á stýrinu, þegar þeir lögðu út frá Knöskanesi; þegar eg smávaknaði á milli, flögraði stormfuglinn um fætur mér; það er kátlegur fugl, hann slær út vængjunum rösklega, heldur þeim svo stríðþöndum og flýgur með ærnum hraða«.

»Vertu nú ekki svona langorður«, sagði móðir vindanna. »Svo þú komst þá í Bjarney?«

»Þar er ljómandi; þar er frægasta dansgólf, slétt eins og skerborð. Þar lá snjórinn hálfþiðnaður með mosatægjum saman við beinagrindur úr rostungum og hvítabjörnum, líkast jötnahandleggjum eða fótleggjum, og komin grænleit mygla á

beinin. Það hefði mátt ætla, að sólin hefði aldrei skinið á þau. Eg blés dálítið á þokuna til þess að hrófið gæti sézt; því hafði verið klöngrað upp úr skipflökum og tjaldað um rostungshúðum; holdrosinn snéri út með grænum og rauðum gárum. Eg fór ofan til sjáfar og horfði á fuglahreiðrin, horfði á ungana ófiðraða, tístandi og gapandi; þá blés eg niður í öll þau óteljandi kok og lærðist þeim þá að halda sér saman. Allra neðst byltu sér rostungarnir eins og lifandi vambir eða heljarstórir maðkar með svínshöfðum og álnarlöngum tönnum«.

»Þú segir vel frá, drengur minn!« sagði móðirin. »Vatnið kemur fram í munninn á mér þegar eg heyri sögu þína«.

»Nú byrjaði veiðiskapurinn. Skutlinum var hent í brjóst rostungsins, svo að rjúkandi blóðboginn stóð í loft upp yfir ísnum eins og vatnsstafur upp úr gosbrunni. Þá hugsaði eg, að nú skyldi eg líka leika mínar listir; eg tók að blása og lét kneri mína, kletthága ísjakana, kreppa utan um bátana; hæ! hæ! mikið hrinu mennirnir, en eg hrein hærra; þeim var nauðugur einn kostur að ryðja dauðum hvalskrokkunum, kistum og kaðlaverki út á ísinn; eg jós yfir þá kafaldsrokunum og lét þá reka með allan aflann á innikreftum fleytunum suður eftir og súpa þar saltan mar. Aldrei eiga þeir framar afturkvæmt í Bjarney«.

»Þá hefir þú unnið ílt verk«, sagði vindamóðirin.

»Frá góðverkum mínum geta aðrir skýrt«, sagði hann, »en þarna kemur hann bróðir minn úr vestrinu; hann er mér geðfeldastur þeirra allra, það er sjóseltubragð að honum og hann færir með sér blessaðan kulda«.

»Er þetta hann Vestri litli?« mælti kóngssonurinn.

»Já, víst er það hann Vestri«, mælti sú gamla, »en ekki er hann svo lítill. Þeir vóru tímarnir að hann var fallegur dtengur, en það er nú af sem áður var«.

Hann var eins og villimaður ásýndum, en hafði fallhatt á höfði, til þess að hann meiddi sig ekki. Í hendi sér hafði hann mahóníkylfu, sem hann hafði höggið sér í mahóní-skógunum fyrir vestan haf. Minna mátti ekki gagn gera.

»Hvaðan ber þig að?« sagði móðir hans.

»Úr skógar-auðnunum«, svaraði hann, »þaðan sem þyrnóttu flækijurtirnar gera gerði á milli trjánna, þar sem vatnsormurinn liggur í votu grasinu og mönnunum virðist vera ofaukið«.

»Hvað gerðir þú þar?«

»Eg horfði á fordjúpt fljótið, sá hvernig það steyptist niður af hamrinum, varð að vatnsúða og þeyttist upp að skýjunum og hélt þar upp regnboganum. Eg sá villinautið synda í fljótinu, en straumurinn hreif það með sér; það rak forstreymis með flokki villiandanna, sem flugu upp þar sem vatnið steyptist niður; villinautið hrapaði ofan fyrir, og þá var mér dillað; því næst hljóp eg á með voðastormi, svo að æfagömul skógtrén rifust upp með rótum, fuku út í fljótið og flísuðust sundur í beljandi straumiðunni«.

»Og annað hefir þér ekki orðið að verki?« sagði sú gamla.

»Eg hef steypt stömpum á »savönnunum«, eg hef klappað villihestunum og skekið niður kókoshnetur; það veit ham-

ingjan, eg kann frá mörgu að segja; en maður á ekki að segja alt sem maður veit; þú kannast við það, móðir mín!« og þar með kysti hann móður sína, svo að hún var nærri oltin aftur á bak; hann var gassalegur drengurinn; því verður ekki neitað.

Nú kom Suðri, sunnanvindurinn, með túrban á höfði, í flakandi Bedúínakápu.

»Sér er hver kuldinn hérna inni!« sagði hann og kastaði viðarbút í eldinn; »það er auðfundið að norðanvindurinn er kominn hér á undan«.

»Hér er svo heitt, að steikja mætti hvítabjörn«, sagði Norðri.

»Þú ert sjálfur hvítabjörn«, mælti Suðri,

»Langar ykkur að komast í pokann?« sagði sú gamla. »Seztu nú niður á steininn hérna og segðu okkur, hvar þú hefir verið«.

»Eg var í Afríku, móðir mín!« sagði hann; eg var á ljónaveiðum með Hottentottunum í Kaffa-landi; þar er nú heldur en ekki loðið á sléttlendinu, grasið olífugrænt; þar dansaði gnúinn og strútsfuglinn þreytti við mig kapphlaup, en eg fór fram úr honum. Eg kom á eyðimörkina á gulu sandana; þar er líkast sem á mararbotni. Eg rakst á ferðamannalest; þeir vóru að slátra síðasta úlfaldanum sínum til þess að fá sér vatn að drekka, en fengu nauðalítið. Sólin brendi að ofan og sandurinn steikti að neðan. Eyðimörkin var endalaus á alla vegu. Eg velti mér í fínum og lausum sandinum og þyrlaði honum upp í stórstróka; þá gekk ertthvað á. Þú hefðir átt að sjá hvað úlfaldinn var lúpulegur þar sem hann stóð; kaupmaður-

inn sveipaði skikkjunni um höfuð sér. Hann fleygði sér niður frammi fyrir mér eins og eg væri *Allah*, guðinn hans. Nú eru þeir dysjaðir og gnæfir sand-pýramíði yfir þeim öllum; þegar þar að kemur, feyki eg honum burt og þá skal sólin bleikja þeirra hvítu bein, svo að ferðamennirnir sjái að þar hafa menn komið; annars trúa menn því ekki að svo hafi verið, slík eyðimörk sem þar er«.

»Þú hefir þá ekki gert nema ilt eitt«, sagði móðirin. »Niður með þig í pokann!« og óðara en Suðri af vissi, hafði hún þrifið um hann miðjan og dembt honum niður í pokann; botnveltist pokinn þar á gólfinu, en hún settist ofan á hann og þá varð hann að liggja grafkyr.

»Það eru heldur röskir drengir, sem þér eigið», sagði kóngssonurinn.

»Svo er víst«, svaraði hún, »og agað get eg þá piltana«; þarna kemur sá fjórði.

Það var Austri; hann var búinn eins og Kínverji.

»Nú, þú kemur þá úr þeirri átt?« sagði móðirin; »eg hélt þú hefðir verið í Paradísar-garði«.

»Þangað flýg eg ekki fyr en á morgun«, sagði Austri. »Á morgun verða liðin hundrað ár síðan eg kom þar; núna kem eg frá Kína og dansaði eg þar í kringum postulínsturninn svo að allar klukkurnar hringdu. Niðri á strætinu vóru embættismennirnir lúbarðir; bambusprikin vóru látin ganga sér til húðar á öxlum þeirra, og þetta vóru mannvirðingamenn frá fyrstu röð til níundu; þeir hljóðuðu og sögðu: »Ástarþakkir minn

föðurlegi velgerðamaður!« en þar fylgdi ekki hugur máli og hringdi eg klukkunum og söng: *tsing*, *tsang, tsú*«.

»Mikill er í þér gáskinn«, sagði sú gamla; »það er gott að þú kemur á morgun í paradísar-garðinn; það er þó altènd til þess að þú siðast dálítið betur; drektu þá duglega úr vizkulindinni og mundu að koma heim með fulla flösku úr henni handa mèr«.

»Það skal eg gera«, sagði Austri; »en því hefirðu látið hann bróður minn að sunnan niður í pokann? upp með hann! hann á að segja mèr frá fuglinum Fenix. Kóngsdóttirin í aldingarðinum vill ætíð fá frèttir af honum, þegar eg kem þangað hundraðasta hvert ár. Opnaðu pokann, þá ertu væn, elsku móðir mín! og þá skal eg gefa þèr tvær vasafyllir af tegrasi eins grænu og glænýju eins og það var, þegar eg tíndi það þar sem það óx«.

»Jæja, fyrst þú færir mèr tegras og líka af því að þú ert eftirlætið mitt, þá skal eg opna pokann«. Hún gerði svo og skreiddist Suðri upp úr pokanum, en afarsneypulegur var hann í framan og kom það af því, að kóngssonurinn ókunni hafði sèð, hvernig farið var með hann.

»Hana! þarna er pálmaviðarlaufblað handa kóngsdótturinni«, sagði Suðri; »laufblaðið gaf mèr gamli fuglinn Fenix, sá eini, sem til var í heimi; hann hefir rist á það með nefinu alla æfisögu sína, um öll þau hundrað ár, sem hann hefir lifað; nú getur hún lesið það sjálf. Eg horfði á þegar fuglinn Fenix kveikti í hreiðri sínu og brann þar upp eins og Hindúa kona. En hvað snarkaði í skraufþurru liminu! þvílíkur reyk-

ur og ilmur! Að lokum stóð alt í björtu báli, gamli fuglinn Fenix varð að ösku, en egg hans lá rauðglóandi í eldinum; það sprakk með gríðarhvell og flaug unginn út úr því; nú er hann konungur allra fuglanna og sá eini fugl Fenix, sem nú er til í veröldinni. Hann hefir höggið gat á pálmalaufblaðið, sem eg fékk þér; það er kveðjusending hans til kóngsdótturinnar«.

»Fáum okkur nú dálítið að borða«, sagði vindamóðirin og settust þau þá öll og tóku að snæða af steikta hirtinum; sat kóngssonurinn hjá Austra og féll skjótt vel á með þeim.

»Heyrðu, segðu mér nokkuð,« mælti kóngssonurinn, »hvaða kóngsdóttir er það, sem hér er svo tíðrætt um og hvar er paradísargarðurinn?«

»Hó, hó!« sagði Austri, »viljirðu komast þangað, þá fljúgðu með mér á morgun; en það verð eg annars að segja þér, að alt frá Adams og Evu dögum hefir enginn lifandi maður þangað komið; við Adam og Evu muntu víst kannast af biflíusögunum?«

»Já, víst geri eg það«, sagði kóngssonurinn.

»Þegar þau vóru út rekin, sökk paradísar-garðurinn í jörð niður, en hann hélt samt sínu hlýja sólskini, sínu gæða loftslagi og allri sinni dýrð. Álfkvennadrotningin á þar heima; þar er Sæluey, sem dauðinn aldrei stígur fæti á, og inndælt er þar að vera. Seztu á bak mér í fyrra málið og skal eg hafa þig með mér; eg er að hugsa um að það takist, en nú máttu ekki meira tala, því eg ætla að sofna«.

Og nú sváfu þau öll saman.

Snemma morguns vaknaði kóngssonur og brá þá heldur en ekki í brún, því hann var kominn hátt upp yfir skýin. Hann sat á baki Austra, sem hélt honum traustatökum. Svo vóru þeir komnir hátt upp, að merkur og skógar og fljót og stöðuvötn, það var alt tilsýndar eins og stór litsettur landsuppdráttur.

»Góðan daginn!« sagði Austri; »þér væri annars óhætt að sofa dálítið enn, því ekki er mikið að sjá á flatneskjunni fyrir neðan okkur, nema ef svo væri, að þig langaði til að telja kirkjurnar, því þær standa eins og krítardeplar á græna borðinu«. Það vóru merkur og engi, sem hann kallaði græna borðið.

»Það var ókurteisi, að mér láðist eftir að kveðja móður þína og bræður«, sagði kóngssonurinn.

»Þegar maður sefur, er maður löglega afsakaður«, sagði Austri, og flugu þeir nú æ harðara og harðara áleiðis; það mátti heyra það frá trjátoppum skóganna, því þegar þeir flugu yfir, varð þytur mikill í greinum og laufi; eins mátti heyra það frá hafinu og stöðuvötnunum, því hvervetna, þar sem þá bar yfir, risu bylgjurnar hærra og stórskipin hneigðu sig djúpt niður í sjóinn eins og svanir á sundi.

Þegar kvölda tók og dimdi yfir, var skrítilegt að sjá stóru borgirnar; þá sáust ljósin ýmist hér og ýmist þar; það var líkast eins og þegar maður hefir brent pappírsblaði og allir litlu eldneistarnir hverfa hver af öðrum. Og kóngssonurinn klappaði saman lófunum, en Austri beiddi hann að vera ekki að því, en halda sér heldur sem fastast, því ella

kynni hann auðveldlega að hrapa og hanga svo fastur á einhverri kirkjuturns-spírunni.

Örnin í koldimmu skógunum er léttfleyg að vísu, en léttfleygari var Austri. Kósakkinn á litla hestinum sínum ríður í loftinu yfir völluna, en hvað var það hjá þeysireið köngssonarins?

»Þarna geturðu séð Himalaya«, sagði Austri, »það er hæsta fjallið í Asíu; nú erum við bráðum komnir að paradísar-garðinum«. Sveigðu þeir þá betur suður á við og kendi brátt ilms af kryddjurtum og blómum; vóru þar villivaxandi fíkjur og granatepli og villivínviðurinn var hlaðinn bláum og rauðum vínberjum. Þar fóru þeir báðir ofan og réttu úr sér í mjúku grasinu og blómin kinkuðu kolli móti vindinum, eins og þau segðu: »Ver heill aftur kominn!«

»Erum við nú komnir í paradísargarðinn?« mælti köngssonurinn.

»Nei, nei! ekki enn«, sagði Austri, »en nú erum við þar bráðum. Sérðu hamrabergið þarna og stóra hellinn, þar sem vínteinungarnir hanga eins og stór, græn gluggatjöld. Þar eigum við að fara inn. Sveipaðu að þér skikkjunni; hérna er steikjandi sólarhiti, en einu feti framar er nístingskuldi; fuglinn, sem flöktir fram hjá hellinum, er með annan vænginn hérna úti í brennandi sumarhita, en með hinn þarna inni í nístings vetrarkulda«.

»Svo þetta er þá vegurinn til paradísargarðsins?« sagði kóngssonurinn.

Nú fóru þeir inn í hellinn; þvílík nepja, sem þar var!

en það stóð ekki lengi. Austri breiddi út vængi sína, og lýsti af þeim sem skærasta eldi; en hvernig var hellirinn? þar seytlaði vatnið niður af stórbjörgum, sem héngu yfir höfði þeim í fáránlegustu myndum; ýmist var svo þröngt að þeir urðu að skríða á fjórum fótum, ýmist svo hátt og vítt um sig eins og undir beru lofti. Það var líkast heljar-grafkapellu með steingerðum orgelum og steinþöglum pípum.

»Við göngum víst á helvegi til paradísar-garðsins«, sagði kóngssonurinn, en Austri svaraði engu orði, og benti fram fyrir sig; skein þá í móti þeim bláleitur bjarmi ljómandi fagur. Grjótbjörgin uppi yfir þeim hverfðust hvað af hverju í þoku, og varð hún björt að lokum eins og hvítt ský í tunglsskini. Og nú lék um þá ljúfasti loftblær, hreinn og hressandi sem á fjöllum uppi og angandi eins og þar sem rósir gróa í dölum niðri.

Á ein rann þar og var hún fagurtær sem himinloftið sjálft, og fiskarnir vóru skínandi sem gull og silfur; léku þar niðri í vatninu purpurarauðir álar og sindruðu af þeim eldneistar í hvert sinn er þeir hreyfðu sig; vatnsrósablöðin ljómuðu af litaskrauti regnbogans og blómið sjálft var rauðgulur, brennandi logi, sem nærðist af vatninu eins og lampaljós af olíu; marmarabrú var á ánni, stæðileg og stöðug, en svo haglega gerð og fínt úthöggin, sem væri hún úr kniplingum og glertölum; lá brú þessi yfir á Sæluey, þar sem paradísar-garðurinn var í öllum sínum blóma.

Austri tók kóngssoninn í fang sér og bar hann yfir um, Þar sungu blóm og blöð hina fegurstu söngva frá barnæsku

hans og sungu þá svo ununarlega snjalt og fagurt, að engin rödd hér á jörðu getur jafnfagurt sungið.

Vóru það pálmaviðir eða risavaxnar vatnsplöntur, sem gréru hér? svo safarík og stórvaxin tré hafði kóngssonurinn aldrei séð á æfi sinni. Þar héngu og hinar undarlegustu vafningsplöntur í löngum sveigum, líkast þeim sem myndaðar sjást með litum og gulli á spássíunum í gömlum helgimannasögum eða eru flúraðar í þeim kringum upphafsstafina. Í grasinu rétt hjá stóð hópur páfugla og breiddu þeir út ljómandi stélin; jú, jú! það var nú rétt svo sem, því þegar kóngssonurinn tók á þeim, þá fann hann að það vóru ekki fuglar, heldur plöntur; það vóru njólablöðkurnar stórvöxnu, sem ljómuðu hér með sömu litprýðinni og hið fagra stél páfuglsins. Ljón og tígrisdýr stukku eins og liðamjúkir kettir á milli limgerðanna, sem ilmuðu eins og olíutrjáa-blómstur, og ljónin og tígrisdýrin vóru gæf og spök; villi-skógdúfan klappaði ljóninu á makkann með vængjum sínum og antílópan, sem annars er svo stygg, stóð spakleg og kinkaði kolli eins og hún vildi líka vera með í leiknum.

Nú kom paradísar-álfkonan. Klæði hennar vóru skínandi eins og sólin og hún var blíðleg í yfirbragði eins og ánægð móðir, þegar hún gleðst mest yfir barni sínu. Hún var svo ung og svo fríð, og fylgdu henni fríðar þjónustumeyjar, sem allar báru skínandi stjörnu til skrauts í hári sínu.

Austri fékk henni skrifaða blaðið frá fuglinum Fenix og tindruðu þá augu hennar af fögnuði; tók hún kóngssoninn við hönd sér og leiddi hann inn í höll sína. Var liturinn á hall-

arveggnum líkur túlípana-blaði, þegar því er haldið upp við sólina. Hallarloftið sjálft var stóreflis geislandi blóm, og því lengur sem horft var upp í það, því dýpri sýndist blómbikarinn. Kóngssonurinn gekk út að glugganum og horfði í gegnum eina rúðuna; sá hann þá skilningstréð með höggorminum, og stóðu þau Adam og Eva þar hjá. »Eru þau ekki rekin burt héðan?« sagði hann; þá brosti álfkonan og útskýrði fyrir honum, að í hverja rúðu hefði tíminn brent mynd sína, en ekki eins og myndir gerðust alment, heldur þannig að lifandi væri; laufin á trjánum hreyfðust og manneskjurnar komu og fóru alveg eins og í spegilmynd. Og hann horfði í gegnum aðra rúðu og var á henni draumur Jakobs; stiginn náði þar beint upp í himininn og englar með stórum vængjum gengu upp og ofan eftir honum. Já, alt, sem við hefir borið í heimi þessum, lifði og hrærðist í glerrúðunum; það var tíminn einn, sem gat innbrent svo listilegar myndir.

Álfkonan leiddi hann brosandi inn í sal nokkurn mikinn og háan; sýndust veggir hans vera gagnsæ málverk og var hvert öðru fegra; það vóru þúsundir þúsunda af sælum verum, sem brostu og sungu, svo að alt rann saman í eitt sönglag; hinar efstu vóru svo litlar að þær sýndust minni en minsti rósknappur, þegar hann er dreginn upp á blaði depilsmár. Og í miðjum salnum stóð tré eitt mikið með gróðursælum, slútandi greinum; héngu gullfögur epli, stór og smá, eins og apelsínur, innan um grænt laufið. Það var skilningstréð með ávöxtunum, sem Adam og Eva höfðu etið af. Af hverju blaði

draup niður skínandi rauður daggardropi; það var eins og tréð gréti blóðugum tárum.

»Förum nú út í bátinn«, sagði álfkonan, »og fáum okkur hressingu úti á ylgjandi vatninu. Báturinn ruggar, og hreyfist þó ekki úr stað, en öll heimsins lönd líða fram hjá fyrir augum okkar«. Og það var undarleg sjón að sjá hvernig kvik·kom á alla ströndina. Þar birtust hin háu snæþöktu Alpafjöll, með skýjabólstrum og dökkum greniskógi; Alpahornið ómaði svo djúpróma og angurblítt og hjarðmaðurinn »jóðlaði« svo fagurlega niðri í dalnum. Þar næst beygðu banantrén hinar löngu og slútandi greinar sínar yfir bátinn; svartar álftir syntu á vatninu og undarlegustu dýr og blómstur sáust á ströndinni; það var Nýja Holland, fimta heimsálfan, sem nú leið hjá með viðblasandi bláum fjöllum. Gat þar að heyra söng blótprestanna og að horfa á villimennina, er þeir dönsuðu eftir trumbnahljómi og beinpípnablæstri. Hinir skýháu pýramíðar Egiptalands, kollhrundar súlur og Svinxmyndir, sem hálfar vóru sandi orpnar, sáust líða fram hjá. Norðurljósin bröguðu yfir jöklum norðurheimsins; það var flugeldagerð, sem enginn gat leikið eftir. Kóngssonurinn var frá sér numinn af unun og var ekki furða, því nú sá hann hundrað sinnum meira en hér verður frá sagt.

»Og fæ eg nú að vera hér alla æfi?« sagði hann..

»Það er undir sjálfum þér komið«, ansaði álfkonan. »Ef þú ekki, eins og Adam fyrrum, lætur freistast til að gera það, sem bannað er, þá máttu vera hér um aldur og æfi«.

»Ekki skal eg snerta eplin á skilningstrénu«, sagði hann, »hér eru ótal ávextir, alt eins fagrir og þau eru.

»Reyndu og prófaðu sjálfan þig og kennirðu þig ekki nógu fastan fyrir, þá farðu með austanvindinum, sem kom með þig. Hann flýgur nú til baka og kemur hér ekki í hundrað ár; sá tími mun þér ekki finnast lengri á þessum stað en hundrað stundir, en það er langur tími fyrir freistnina og syndina. Á hverju kvöldi, er eg geng frá þér, verð eg að kalla til þín: »Komdu með mér«. Eg verð að benda þér með hendinni, en vertu kyr og fylgdu mér hvergi. Farðu ekki með mér, því þá mun ílöngun þín fara vaxandi með hverju spori, sem þú stígur áfram; þú kemur í salinn þar sem skilningstréð er; eg sef undir hinum ilmandi, niðurslútandi greinum þess. Þú munt beygja þig ofan að mér og eg verð að brosa, en þrýstir þú kossi á varir mínar, þá mun paradís sökkva í jörð niður og mun hún þá vera þér með öllu töpuð. Kuldagjóstur eyðimerkurinnar mun þjóta um þig og kraparegnið renna niður af hári þínu. Hrygð og armæða mun verða þitt hlutskifti«.

»Eg verð hér kyr«, mælti kóngssonurinn og Austri kysti hann á ennið og sagði: »Vertu nú sterkur fyrir, þá munum við sjást hér að hundrað árum liðnum. Vertu sæll!« — og Austri þandi út sína stóru vængi, og skinu þeir eins og leiftur á haustdegi eða norðurljós um hávetur. »Vertu sæll, vertu sæll!«, ómaði frá blómum og trjám. Storkar og pelíkanar flugu með í langri röð eins og flögrandi band og fylgdu honum alla leið út að takmörkum aldingarðsins.

»Nú byrja dansleikirnir okkar«, sagði álfkonan; »en þegar að því er komið, að hætt verður, og eg dansa við þig, þá muntu sjá, í sama bili og sólin rennur, að eg bendi þér; þú munt heyra að eg kalla til þín: »Komdu með mér!« en gerðu það ekki. Í hundrað ár verð eg að ítreka þetta á hverju kvöldi, Í hvert sinn sem sá tími er liðinn, mun þér aukast þrek, og að síðustu muntu aldrei láta þér það í hug koma. Í kvöld er þetta í fyrsta sinn, og hef eg nú varað þig við«.

Og álfkonan leiddi hann inn í stóran sal, sem allur var úr hvítum gagnsæjum liljum; var ofurlítil gullharpa í hverri lilju og ómaði með strengjahljómi og flaututónum. Fríðustu stúlkur stigu þar dansinn, sviflèttar og fagurvaxnar, klæddar bylgjandi netvefjarhjúpum, svo að sjá mátti þar í gegnum hið yndisfagra limalag þeirra, og sungu þær um það, hve dýrðlegt væri þar að lifa, að þær mundu aldrei deyja og paradísar-garðurinn um eilífð standa í blóma.

Og sólin rann og allur himininn glóði sem gull, og brá bjarma yfir liljurnar, svo að þær urðu sem fegurstu rósir, og kóngssonurinn drakk af hinu freyðandi víni, sem stúlkurnar báru honum, og svo mikinn sælu-unað fann hann streyma um sig allan, að aldrei hafði hann áður fundið slíkan; hann sá salargaflinn opnast og skilningstréð standa þar í svo miklum ljóma að glýju gerði fyrir augum hans. Söngurinn, sem þaðan ómaði, var þýður og inndæll eins og rödd móður hans, og var sem hún syngi: »Komdu barnið mitt! komdu elsku barnið mitt!«

Þá benti álfkonan honum og kallaði svo ástúðlega: »Komdu með mér! komdu með mér!« og hann skundaði til hennar

og gleymdi heiti sínu, gleymdi því nú þegar fyrsta kvöldið. Ilmurinn kryddsæti alt umhverfis varð æ megnari og megnari, hörpurnar hljómuðu miklu fegur en áður og það var eins og þessi ótal höfuð í salnum, þar sem tréð var inni, það var eins og þau kinkuðu kolli brosandi og syngju: »Alt ber manni að þekkja; maðurinn er jarðarinnar herra«. Og það vóru ekki framar blóðug tár, sem hrundu af blöðunum á skilningstrénu; honum sýndist það vera rauðleitar, blikandi stjörnur. »Komdu með mér! komdu með mér!« ómaði í eyrum hans með titrandi tónum og við hvert fótmál hitnuðu kinnar hans og æstist blóðið í æðum hans; »eg má það«, sagði hann, það er engin synd, getur ekki verið nein synd; því skyldi eg ekki mega fylgja fegurðinni og gleðinni? eg vil sjá hana sofandi; það er ekkert í hættunni, ef eg að eins ekki kyssi hana, og það geri eg ekki, eg er óbilugur, eg hef sterkan vilja«.

Og álfkonan varpaði af sér hinum skínandi klæðum sínum og ýtti greinunum til hliðar og óðara var hún horfin þangað inn og faldist þar.

»Ekki hef eg syndgað enn þá«, sagði kóngssonur, »og ekki mun eg heldur gera það síðar«, og þar með mjakaði hann greinunum til hliðar. Þarna lá hún og var svo fríð og yndisleg, sem engin er önnur nema álfkonan í paradís; hún brosti í draumi og hann laut ofan að henni og sá tárin titrandi milli augnahára hennar.

»Græturðu yfir mér?« hvíslaði hann, »gráttu ekki, yndisfagra kona! Nú skil eg fyrst sælu paradísar; hún streymir um æðar mínar, streymir gegnum huga minn; eg finn þrótt kerúbs-

ins og hið eilífa lífið í mínum jarðneska líkama; nú má koma yfir mig eilíf nótt; ein mínúta slík sem þessi er mér nógur auður«; — og í því kysti hann tárið af auga hennar, og hans varir snertu hennar varir.

Þá dunaði skrugga svo dimt og ógurlega að slíkt hafði aldrei heyrzt fyr og alt hrundi saman; paradísin sökk með öllum sínum blóma, hún sökk svo djúpt, svo djúpt; kóngssonurinn sá hana sökkva niður í svartnætti; hún geislaði langt í burtu eins og dálítil skínandi stjarna. Helkuldi fór um limi hans, hann lét aftur augun og lá lengi sem dauður væri.

Kalsarigning dundi niður í andlit hans og nöpur vindgola næddi um höfuð hans; þá rankaði hann við sér. »Hvað hef eg gert?« sagði hann andvarpandi, »eg hef syndgað eins og Adam; já, syndgað svo að paradís er sokkin þarna niður«; og hann lauk upp augum sínum; stjarnan þarna langt í burtu, stjarnan, sem blikaði eins og paradísin horfna — það var morgunstjarnan á himninum.

Hann reis upp og sá nú að hann var í skóginum mikla nálægt vindahellinum og sat vinda-móðirin hjá honum; hún var reiðugleg og lyfti upp hendinni.

»Undireins fyrsta kvöldið!« sagði hún; »þetta grunaði mig alténd. Já, ætti ég þig, drengur minn! þá skyldirðu fara í pokann«.

»Já, í pokann skal hann fara«, sagði Dauðinn; það var sterklegur maður, aldraður, með ljá í hendi og stóra svarta vængi á öxlum. »Hann skal lagður í líkkistu, en ekki núna; eg læt að svo svo stöddu nægja að merkja hann; lofum hon-

um svo að flakka í heiminum um stund, sjá að sér og verða betri maður; — eg kem einhverntíma. Þegar hann þá minst varir, sting eg honum í líkkistuna svörtu, set hana upp á höfuð mér og flýg upp til stjörnunnar; þar er líka paradís í blóma, og sé hann góður og guðhræddur, þá skal hann fá að fara þar inn, en séu hugrenningar hans illar og hjartað enn þá fult af synd, þá sökkur hann með kistunni enn dýpra niður en paradís sökk, og að eins þúsundasta hvert ár sæki eg hann þá aftur til þess að hann sökkvi enn dýpra eða öðlist samastað í stjörnunni — í blikskæru stjörnunni þar efra«.





# Næturgalinn.

Það muntu víst vita, að í Kína er keisarinn Kínverji og þeir allir Kínverjar, sem hann hefir í kringum sig. Mörg ár eru nú liðin síðan þetta var, en einmitt þess vegna er gott að heyra söguna áður en hún gleymist. Höllin keisarans var glæsilegust höll í heimi; hún var öll af fínu postulíni, sem var svo dýrt og brothætt, að það varð að gæta mestu varkárni, hvað lítið sem við það var komið. Í aldingarði keisarans mátti sjá undarlegustu blóm, og við hin allra skrautlegustu vóru bundnar silfurbjöllur, til þess að þeir, sem fram hjá gengju,

mættu til að taka eftir blómunum. Já, alt í garði keisarans var merkilegt og með listum gert, og svo langt náði hann, að enda sjálfur garðyrkjumaðurinn vissi ekki, hvar hann tæki enda, en héldi maður þar áfram göngu sinni, þá kom maður í fegursta skóg með hávöxnum trjám og djúpum tjörnum Skógurinn náði alla leið ofan að bláu hafinu, og var þar aðdjúpt, svo að stór skip gátu siglt inn undir greinarnar, en í þeim átti heima næturgali einn, sem söng svo uunarlega fagurt, að enda fiskimennirnir fátæku, sem höfðu þó svo miklu öðru að gegna, létu staðar numið til að hlusta, þegar þeir vóru úti á sjónum um nætur til að draga upp net sín. Og þegar þeir hlýddu á næturgalann þá sögðu þeir: »Ó hvað þetta er fallegt!« en urðu þá að sinna verki sínu og gleymdu fuglinum; en þegar fuglinn söng aftur næstu nótt og þeir komu þangað, þá sögðu þeir aftur: »Ó, hvað þetta er fallegt!«

Frá öllum heimsins löndum komu ferðamenn til keisaraborgarinnar og dáðust að borginni, höllinni og lystigarðinum, en þegar þeir heyrðu til næturgalans, þá luku allir upp einum munni og sögðu: »Hann er þó bestur af því öllu«.

Og ferðamennirnir sögðu frá því, þegar þeir komu heim, og lærðu mennirnir sömdu margar bækur um borgina, höllina og lystigarðinn, en ekki gleymdu þeir næturgalanum; hann settu þeir efstan, og þeir, sem skáldmæltir vóru, ortu fegurstu kvæði, sem öll vóru um næturgalann í skóginum við hinn djúpa sæ.

Bækur þessar bárust um heim allan og sumar þeirra komu líka að endingu til keisarans. Hann sat á gullstólnum

sínum og las og las; kinkaði hann kolli alt af öðru hverju, því honum var ánægja að hinum dýrðlegu lýsingum á borginni, höllinni og garðinum. »En næturgalinn er þó það langbesta«, stóð þar skrifað.

»Hvað er þetta?« sagði keisarinn. »Næturgalinn! — hann þekki eg alls ekki; er slíkur fugl hér í keisararíki mínu, og það meira að segja í garði mínum? Það hef eg aldrei heyrt; þess konar verður maður fyrst að fræðast um af bókum«.

Hann kallaði þá á einn af hirðgæðingum sínum. Hann var svo mikill stórbokki, að dirfðist einhver að ávarpa hann, sem var minni háttar en hann sjálfur, þá sagði hann ekki annað en Pé! og það þýðir ekki neitt.

»Hér kvað vera einstaklega merkilegur fugl, sem næturgali nefnist«, mælti keisarinn; »menn segja að hann sé það langbesta í mínu stóra ríki. Því hafa menn aldrei sagt mér neitt um hann?«

»Eg hef aldrei áður heyrt hann nefndan á nafn«, svaraði gæðingurinn; »hann hefir aldrei verið sýndur hér innan-hirðar«.

»Eg vil að hann komi hér í kvöld og syngi fyrir mig«, sagði keisarinn. »Þarna veit allur heimur, hvað eg á, og eg veit það ekki sjálfur«.

»Eg hef aldrei áður heyrt hann nefndan á nafn«, sagði gæðingurinn, »eg skal leita að honum, eg skal finna hann«.

En hvar mundi hann vera að finna? Hirðgæðingurinn hljóp allar tröppur upp og ofan, um hallarsali og hallargöng, en enginn, sem hann hitti, hafði heyrt næturgalans getið, og

hljóp þá gæðingurinn aftur til keisarans og sagði að þetta hlyti að vera skröksaga, sem bókahöfundar hefðu búið til. »Yðar keisaralega hátign ætti ekki að leggja trúnað á það, sem skráð er í bókum, það eru uppáfyndingar og fitonsanda-list, sem svo er kölluð«.

»En bókin, sem eg hef lesið það í«, sagði keisarinn, »hefir verið mér send af hinum stórvolduga Japans-keisara, og þá getur það ekki verið ósatt. Eg vil hlýða á næturgalann; hann verður hér að vera í kvöld; hann nýtur minnar æðstu náðar og komi hann ekki, þá skal öll mín hirðdrótt lemjast á magann, að loknum kvöldverði«.

»*Tsingpe!*« sagði hirðgæðingurinn og hljóp aftur upp og ofan allar tröppurnar, um hallarsali og hallargöng, og hálf hirðin hljóp með, því hirðarherrunum var ekki mikið um það gefið að þeir yrðu barðir á magann. Og nú gekk ekki á öðru en eftirspurnum um næturgalann, sem allir þektu aðrir, en enginn við hirðina.

Loksins hittu þeir dálitla fátæka telpu í matreiðsluhúsinu. »Mikil ósköp!« sagði hún, »næturgalann, jú, hann þekki eg vel; sá getur nú sungið; mér hefir verið leyft að fara á hverju kvöldi með dálítið af matleifum frá borðinu til veslingsins hennar móður sinnar, sem er veik; hún býr niðri við sjóinn; þegar eg svo er á heimleið og verð þreytt og hvíli mig í skóginum, þá heyri eg næturgalann syngja; mér vöknar um augun af því, það er eins og hún móðir mín væri að kyssa mig«.

»Heyrðu eldastúlka litla!« sagði gæðingurinn, »eg skal

útvega þér fasta stöðu í matreiðsluhúsinu og leyfi til að sjá keisarann borða, ef þú getur fylgt okkur til næturgalans, því hann er kvaddur til hirðarinnar núna í kvöld«.

Og nú lagði allur hópurinn á stað út í skóginn, þar sem næturgalinn var vanur að syngja; hálf hirðin var með í þeirri för. Þegar kippkorn var komið áleiðis, fór kýr nokkur að baula.

»O!« sögðu hirðarherrarnir, »þarna höfum við hann; það er merkilega mikil orka í svona litlu dýri; mér bregzt það ekki að eg hef heyrt til hans einhverntíma áður«.

»Nei!« það eru kýrnar, sem eru að baula«, sagði litla eldastúlkan, »við erum ekki nærri komin á staðinn enn«.

Nú tóku froskar nokkrir að hvakka í tjarnarpolli.

»Inndælt!» sagði hallarpresturinn kínverski, »nú heyri eg til hans, það klingir eins og litlar kirkjuklukkur«.

»Nei! það eru froskarnir«, sagði eldastúlkan litla. »En nú geri eg ráð fyrir að við heyrum til hans bráðum«.

Nú tók næturgalinn að syngja.

»Þetta er hann«, sagði litla stúlkan, »heyrið þið! heyrið þið! og þarna situr hann«, og um leið benti hún á ofurlítinn gráan fugl uppi í liminu.

»Getur það verið?« sagði hirðgæðingurinni, »ekki hafði eg hugsað mér hann svona! en hvað hann er lítilfjörlegur í sjón! Hann hefir víst skift litum við það að sjá svo marga tigna menn í kringum sig«.

»Næturgali litli!« kallaði eldastúlkan litla upphátt, »okkar náðugi keisari vildi gjarnan að þú syngir fyrir hann«.

»Með mestu ánægju«, sagði næturgalinn og söng svo unun var á að hlýða.

»Það er eins og glerklukkur«, sagði hirðgæðingurinn, »og sko barkann litla, hvað hann rembist; það er merkilegt að við skulum aldrei hafa heyrt til hans áður. Hann mun verða á höndum borinn við hirðina«.

»Á eg að syngja einu sinni enn fyrir keisarann?« sagði næturgalinn; hann hélt að keisarinn væri þarna sjálfur með í hópnum.

»Minn ágæti litli næturgali!« sagði hirðgæðingurinn, »mér hefir veitzt sú mikla gleði, að bjóða yður í hirðveizlu í kvöld; munuð þér þar heilla hans keisaralegu náð með yðar töfrandi sönglist«.

»Hún er áheyrilegust í grænum skóginum«, sagði næturgalinn, en fylgdist samt fúslega með, er hann heyrði að keisarinn óskaði þess.

Í höllinni hafði verið prýðilega fyrir búið. Veggirnir og gólfið, sem alt var af postulíni, ljómaði við logbirtu af þúsundum gulllampa; fegurstu blómum, þeim, er snjallast kunnu að klingja, var raðað í gangana; var þar umferð mikil og dragsúgur, en einmitt við það klingdu líka allar bjöllurnar, svo ekki heyrðist mannsmál.

Í miðjum stóra salnum þar sem keisarinn sat, var reistur upp gullteinn, og á honum átti næturgalinn að sitja; öll hirðin var þar saman komin og eldastúlkunni litlu hafði verið leyft að standa á hurðarbaki, því nú hafði hún fengið nafnbót og var orðin »virkileg« eldastúlka. Alt hirðfólkið var þar í

sínum skrautlegasta búningi og öllum varð starsýnt á litla fuglinn gráa, enda var keisarinn alt af að kinka kolli til hans.

Og næturgalinn söng svo fagurt að keisaranum vöknaði um augu; tárin hrundu niður eftir kinnum hans og þá söng næturgalinn enn fegur; það var söngur, sem gekk til hjartans; og keisarinn varð svo glaður, að hann sagði að næturgalinn skyldi fá gulltöpluna sína til að bera um háls sér. En næturgalinn þakkaði fyrir, honum var þegar að fullu launað.

»Eg hef séð tár í augum keisarans; það er mér dýrmætara en gull og gersemar; keisaratár hafa undarlega mikið vald. Það veit guð að mér er nógsamlega launað«. — Söng hann þá enn aftur með sinni sætu, unaðslegu rödd.

»Þetta er það elskulegasta hljóða-dill, sem eg þekki«, sögðu hefðarkvendin alt í kring, og létu svo vatn í munn sér, til þess að verða klak-róma, þegar einhver yrti á þær; þær héldu þá líka að þær væru næturgalar; enda þjónarnir og herbergismeyjarnar létu skila frá sér, að þau væru vel ánægð, og má það mikið kalla, því þeim er langerfiðast að gera til hæfis. Já, það má með sanni segja að næturgalinn komst í gengið.

Nú átti hann að vera innanhirðar, fá sitt eigið búr og svo mikið frelsi að hann mátti ganga út tvisvar á daginn og einu sinni á nóttunni. Honum vóru fengnir tólf þjónar og höfðu allir silkiþráð um fót honum og héldu þeir í þræðina vel og fastlega. Svo löguð ganga var engin skemtiganga.

Í allri borginni varð mönnum tíðrætt um þennan merkilega fugl, og þegar tveir mættust sagði annar ekki annað en: »*Nætur-*« en hinn sagði »*gali*«, og stundu þeir þá við og skildi

hvor annan. Ellefu fleskmangara-börn vóru látin heita í höfuðið á næturgalanum, en ekki var þó rómur skapaður í barka neins þeirra.

Einn dag var komið með stóran pakka til keisarans og stóð skrifað utan á honum: »Næturgali«.

»Þarna er þá komin ný bók um fuglinn okkar fræga«, sagði keisarinn; en það var ekki bók, heldur var það völundarlegur smíðisgripur, falinn í öskjum; það var smíðaður næturgali, sem líkjast átti hinum lifanda, en hann var alsettur demöntum, rúbínum og safírum; óðara en gjörfifugl þessi var dreginn upp, gat hann sungið eitthvert af lögum þeim, er hinn náttúrlegi söng og gekk þá stélið upp og niður og glitraði af gulli og silfri. Um hálsinn á fuglinum hékk band og vóru letruð á það þessi orð: »*Næturgali Japans-keisara er fátæklegur í samanburði við næturgala keisarans í Kína*«.

»Það er ágætt«, sögðu allir og sá, sem hafði komið með gjörfifuglinn, varð jafnharðan »yfir-næturgala-beri« að nafnbót.

»Nú verða þeir að syngja saman; það verður tvísöngur í lagi«, sögðu menn.

Og þeir vóru látnir syngja saman, en það gekk ekki sem best, því náttúrlegi næturgalinn söng á sína vísu, en hinn lék á völtum. »Það er ekki honum að kenna«, sagði spilmeistarinn, »hann er einstaklega taktviss og útlærður úr mínum skóla«. Var svo gjörfifuglinn látinn syngja einn. Rómuðu menn hans söng engu síður en náttúrlega fuglsins og bættist þar við, að hann var svo miklu prýðilegri álits; hann glitraði allur eins og armbönd og brjóstnálar.

Þrjátíu og þrisvar sinnum söng hann eitt og sama lagið og varð samt ekki þreyttur; mundu menn og gjarnan hafa heyrt hann syngja upp aftur frá byrjun, en keisarinn vildi að nú syngi lifandi næturgalinn líka dálítið, — — en hvar var hann? Enginn hafði veitt því eftirtekt, að hann hafði flogið út um opinn gluggann og haft sig þaðan burt til grænu skóganna sinna.

»En hvernig stendur á þessu?« sagði keisarinn, og hirðfólkið var uppi með illyrði og lauk því orði á, að næturgalinn væri fram úr lagi óþakklátur fugl. »Jæja, betri fuglinn höfum við samt« sögðu menn og varð svo gjörfifuglinn að syngja aftur og var það í þrítugasta og fjórða sinn sem þeir fengu að heyra sama lagið, en lagið kunnu þeir ekki enn til fulls, því það var svo erfitt, og lofaði spilmeistarinn fuglinn á hvert reipi og fullvissaði um, að hann væri betri en náttúrlegi næturgalinn, ekki einungis að klæðnaðinum til og demantaskrautinu, heldur einnig að innri gerð.

»Því, sjáið nú, þér hágöfugu tignarmenni, og æðstur allra keisarinn: hjá náttúrlega næturgalanum verður aldrei reiknað út, hvað koma muni, en hjá gjörfifuglinum er alt niðurskorðað: svona verður það og ekki öðruvísi; maður getur gert grein fyrir því, maður getur tekið hann í sundur og sýnt hina mannlegu hugvitssemi, hvernig valtarnir liggja, hvernig þeir leika og hvernig eitt leiðir af öðru —«.

»Það er einmitt það, sem eg hugsaði mér«, sögðu þeir sem við vóru, hver um sig, og var spilmeistaranum leyft að sýna almenningi fuglinn næsta sunnudag; keisarinn sagði að

alþýðufólk yrði líka að heyra hann syngja; og það hlýddi á hann og urðu menn svo unaðfangnir eins og þeir hefðu drukkið sig góðglaða, — í tevatni, auðvitað, því það er nú svo alveg upp á kínversku, og allir sögðu: »Ó!« — réttu upp sleikifingurinn og kinkuðu kolli; en einum af fátæku fiskimönnunum, sem heyrt höfðu rétta næturgalann syngja, varð þetta að orði: »Það er dáfallegt að heyra og það líkist; en eitthvað vantar samt, sem eg ekki veit hvað er«.

Náttúrlegi næturgalinn var nú gerður útlægur úr ríki keisarans.

Gjörfifuglinn var látinn sitja á silkikodda fast við hvílu keisarans; allar gjafirnar, sem hann hafði fengið, gull og gimsteinar lágu þar í kringum hann, og hafði hann verið hækkaður að nafnbót, svo að nú var hann orðinn »hákeisaralegur náttborðs-söngvari«, og var í virðinga-röðinni númer eitt til vinstri hliðar, því keisarinn taldi þá síðuna göfugri, þar sem hjartað er, en hjartað er vinstra megin, einnig í keisurum. Og spilmeistarinn skráði tuttugu og fimm bindi um gjörfifuglinn; það var nú svo hálærð og langorð ritsmíð, með allratorskildustu orðum í kínversku máli, og sögðust allir hafa lesið og skilið, því annars mundu þeir vitanlega hafa verið dæmdir heimskir og lamdir fyrir það á magann.

Svona leið nú heilt ár; keisarinn, hirðfólkið og allir aðrir Kínverjar kunnu upp á tíu fingur hvern klak-tón í sönglagi gjörfifuglsins, en einmitt þess vegna geðjaðist þeim nú langtum betur að honum; þeir gátu sjálfir sungið með og það gerðu þeir. Götustrákarnir sungu: »sí, sí, sí! klúk, klúk, klúk!« og

keisarinn sjálfur söng það líka. Mátti því nærri geta, hvort það var ekki fallegt.

En eitt kvöld þegar gjörfifuglinn söng sem snjallast og keisarinn lá í hvílu sinni og hlýddi á, þá heyrðist bresthljóð innan í fuglinum; það var eitthvað sem sprakk og sagði »birrr!« öll hjólin snarsnérust og sönglistin hætti.

Keisarinn stökk óðara ofan úr rúminu og lét kalla á líflækni sinn, en hvað mundi hann geta hjálpað? Var þá sóttur úrsmiðurinn og eftir mikið tal og mikla eftirgrenslun tókst honum nokkurn veginn að gera við fuglinn, en hann sagði, að það yrði að nota hann með mestu varúð, því tapparnir í honum væru orðnir svo slitnir og enginn vegur að setja svo í hann nýja tappa, að örugt væri um að sönglistin gengi rétt. Fékk það öllum mikillar hrygðar. Að eins einu sinni á ári mátti láta gjörfifuglinn syngja og var þó öllu til skila haldið, að svo mætti verða. Hélt þá spilmeistarinn ræðukorn með afar-torskildu orðalagi og sagði að alt væri jafngott og áður, enda tóku þá allir undir og sögðu að svo væri.

Nú vóru liðin fimm ár og bar þá nokkuð það að höndum, sem þjóðinni allri var verulegt sorgarefni; henni þótti í rauninni innilega vænt um keisara sinn og nú var hann fársjúkur og lífs von engin, að því er sagt var. Það var þegar búið að velja nýjan keisara og fólkið stóð úti á strætinu og spurði hirðgæðinginn, hvernig keisaranum liði.

»Pé!« sagði hann og hristi höfuðið.

Keisarinn lá kaldur og fölur í stóru skrauthvílunni sinni; öll hirðin hélt að hann væri dáinn og hirðmennirnir þustu

hver sem einn á stað til að heilsa upp á nýja keisarann; herbergissveinarnir hlupu út til að tala um það og þjónustumeyjarnar héldu stórt kaffi-samsæti. Klæði hafði verið breitt á gólfin í öllum sölum og göngum, svo ekki heyrðist, þegar um væri gengið og var því alt svo hljótt og þegjandalegt. En keisarinn var ekki dáinn enn; hann lá stirður og fölur í skrauthvílunni með löngu flauels-sparlökunum og þungu gullskúfunum; hið efra stóð opinn gluggi og skein tunglið inn um hann á keisarann og gjörfifuglinn.

Veslings keisarinn gat varla dregið andann, það var eins og eitthvað sæti á brjósti hans; hann brá sundur augum og sá þá að það var dauðinn, sem sat á brjósti hans og hafði sett upp gullkórónuna hans og hélt á gullsverði hans í annari hendi, en skrautfána hans í hinni, og alt umhverfis í fellingum flauelssparlakanna gægðust fram undarleg höfuð, sum afskræmilega ljót, en aftur önnur svo blíð og ástúðleg; það vóru öll hin illu og góðu verk keisarans, sem horfðu á hann nú, er dauðinn sat á hjarta hans.

»Manstu eftir því?« hvíslaði eitt eftir annað. »Manstu eftir því?« og svo sögðu þau honum frá svo mörgu, svo að svitinn bogaði af enni honum. »Það hef eg aldrei vitað«, sagði keisarinn: »Sönglist! sönglist!« kallaði hann, »berjið stóru kínversku bumbuna, svo eg þurfi ekki að heyra alt, sem þau segja!«

En höfuðin héldu áfram og dauðinn kinkaði kolli eins og Kínverji við alt, sem sagt var.

»Sönglist! sönglist!« æpti keisarinn. »Blessaður litli gullfuglinn! syngdu, í öllum bænum, syngdu; eg hef gefið þér

gull og gersemar, eg hef sjálfur hengt gulltöpluna mína um háls þér, syngdu, í öllum bænum syngdu!«

En fuglinn steinþagði; það var enginn, sem gat dregið hann upp og að öðrum kosti söng hann ekki; en dauðinn hélt áfram að stara á keisarann með augnatóftunum stóru og tómu. Það var svo hræðilega þegjandalegt þar í herberginu.

Þá hljómaði alt í einu fegursta sönglist við gluggann; það var litli, lifandi næturgalinn sem sat á trjágrein fyrir utan; hann hafði heyrt hvað keisarinn ætti bágt og var því kominn til að færa honum huggun og von með söng sínum; og eftir því sem hann söng lengur, bliknuðu myndirnar meir og meir, blóðrásin örfaðist í hinum sjúka líkama keisarans og dauðinn sjálfur hlustaði á og sagði: »Haltu áfram næturgali litli! haltu áfram!«

»Viltu þá láta mig fá gullsverðið glæsilega? viltu láta mig, fá skrautfánann? viltu láta mig fá kórónuna keisarans?«

Og dauðinn lét hverja gersemi af hendi fyrir einn söng, og næturgalinn hélt enn áfram að syngja, og hann söng um kirkjugarðinn, þar sem kyrðin ríkir, þar sem hvítu rósirnar vaxa, þar sem ylliviðurinn angar og grængresið vöknar af tárum þeirra, sem eftir lifa; þá fór dauðann að langa heim aftur í garðinn sinn og sveif hann svo út um gluggann í líki kaldrar og hvítrar þoku.

»Hafðu þökk fyrir, himneski fuglinn minn!« sagði keisarinn; »víst þekki eg þig. Eg hef flæmt þig burt úr ríki mínu og löndum, og samt hefirðu sungið syndirnar illu burt frá

hvílu minni og komið dauðanum burt frá hjarta mínu. Hvernig á eg að launa þér fyrir?«

»Þú ert búinn að launa mér«, sagði næturgalinn; »eg kom út á þér tárunum í fyrsta sinni þegar eg söng; því gleymi eg aldrei; það eru dýrgripirnir, sem gleðja hjarta söngvarans. En sofðu nú, svo þú frískist og styrkist; eg skal syngja fyrir þig aftur«.

Og hann söng og keisarinn sofnaði; ó, hve sá svefn var sætur og endurnærandi!

Og sólskinið lagði inn um gluggann til hans, er hann vaknaði aftur, endurhrestur og heill heilsu; engir af þjónum hans vóru enn komnir aftur, því þeir hugðu hann dauðan, en næturgalinn sat hjá honum enn og söng.

»Þú verður að vera hjá mér altaf«, sagði keisarinn. »Þú skalt ekki þurfa að syngja oftar en þú sjálfur vilt og smíðaða fuglinn mölva eg í ótal stykki«.

»Gerðu það ekki«, sagði næturgalinn, »hann hefir gert það gott, sem hann gat; hafðu hann hjá þér eins og að undanförnu. Eg get ekki haldið til hér í höllinni, en láttu mig koma þegar mig lystir sjálfan, þá skal eg sitja að kvöldi dags á trjágreininni þarna við gluggann og syngja fyrir þig, svo að þú verðir glaður og þó hugsandi um leið; eg skal syngja um þá, sem hamingjusamir eru, og um þá, sem raunamæddir eru; eg skal syngja um hið illa og góða, sem í kringum þig er, og leyndu er haldið. Söngfuglinn litli flýgur víðsvegar,—heim að kofanum fiskimannsins fátæka, heim að bænum bóndamannsins, og til hvers og eins, sem fjarri er þér og hirð þinni. Eg elska

hjarta þitt meira en kórónu þína, og er þó eitthvað heilagt yfir henni líka. Eg skal koma, eg skal syngja fyrir þig, en einu verður þú að lofa mér«.

»Öllu, hvað sem er«, sagði keisarinn og stóð nú þarna í keisaraskrúðanum, sem hann hafði farið í á meðan, og hélt gullsverðinu upp að hjarta sér.

»Eins bið eg þig«, sagði næturgalinn; »láttu engan vita, að þú eigir lítinn fugl, sem segir þér alt; þá mun enn betur fara«.

Og að svo mæltu flaug næturgalinn burt.

Nú komu þjónarnir inn til að líta eftir dauða keisaranum sínum. Og sjá! þarna stóð hann og bauð þeim góðan daginn.





# Nýju fötin keisarans.

Fyrir mörgum árum var keisari nokkur, sem hafði svo ákaflega miklar mætur á fallegum nýjum fötum, að hann lét alla sína peninga ganga til þess að geta verið sem allra-skrautklæddastur. Hann kærði sig ekki um dáta sína og ekki hirti hann um leikhúss-skemtanir né skemti-akstur út í skóga, nema að eins til að sýna nýju fallegu fötin sín. Hann átti sér kjól fyrir hverja dagsstund og eins og sagt er um konung: »Hann er í ráðinu«, eins var um keisarann alt af sama viðkvæðið: »Hann er í fataskápnum«.

Í stóru borginni, þar sem hann hafði aðsetur sitt, var sérlega skemtilegt og komu þar margir útlendingar á degi hverjum. Og einhvern dag bar svo til, að þar komu tveir svikahrappar; þeir þóttust vera vefarar og kváðust kunna að vefa þann fegursta vefnað, sem hugsast gæti; það væri ekki að eins litirnir og munstrin á vefnaðinum, sem væri svo óvenju fagurt, hvort um sig, heldur fylgdi líka sú náttúra fötunum, sem úr honum væru saumuð, að þau yrðu ósýnileg hverjum þeim manni, sem óhæfur væri í embætti sínu eða ófyrirgefanlega heimskur.

»Já, það væru reyndar afbragðs föt«, hugsaði keisarinn; »með því að vera í þeim gæti eg komizt fyrir, hverjir í ríki mínu eru nýtir menn og dugandi í embætti sínu; eg gæti þá þekt vitsmuna-mennina frá heimskingjunum; já, þess konar fataefni verður undireins að vefa handa mér«. Og hann greiddi báðum svikahröppunum mikið fé fyrirfram til þess að þeir byrjuðu á verki sínu.

Þeir settu þá líka upp tvo vefstóla og létu eins og þeir ynnu, en höfðu alls ekki neitt á vefstólunum. Þeir heimtuðu óðum fínasta silki og fegursta gull; en það létu þeir alt niður í sína eigin poka og ófu á tómum vefstólunum og það langt fram á nætur.

»Nú þætti mér gaman að vita hvað þeim líður með fataefnið«, hugsaði keisarinn, en einhvern veginn lagðist það ekki vel í hann, þegar hann hugsaði til þess að sá, sem heimskur væri eða illa hæfur í embætti sínu, gæti ekki séð það. Nú hélt hann reyndar að hann þyrfti ekki neinu að kvíða um

dóttirin og skugginn. Hún var létt, en hann var enn léttari; slíkan dansara hafði hún aldrei þekt. Hún sagði honum, frá hvaða landi hún væri, og hann kannaðist við landið, því hann hafði verið þar, en þá var hún ekki heima; hann hafði gægzt inn um gluggana, hátt og lágt, hann hafði séð hvað eina og var honum því svo létt um svörin, að kóngsdóttirin varð steinhissa; hann hlaut að vera allra manna vitrastur í heimi; hún fékk svo mikla virðingu fyrir þekkingu hans, og þegar þau dönsuðu í annað sinn, þá varð hún ástfangin og það fann skugginn vel, því það lá við að hún blíndi alveg í gegnum hann. Dönsuðu þau svo enn þá einu sinni og var þá rétt komið að henni að segja það, en hún var stilt og gætin; hún hugsaði um lönd sín og ríki og allan þann lýð, sem hún átti yfir að ríkja. »Vitur maður er hann«, sagði hún við sjálfa sig, »gott er það; og ljómandi vel dansar hann; það er líka gott; en skyldi hann nú hafa grundaða þekkingu? Það er eins gott að eg prófi hann«. Og tók hún þá smásaman að leggja fyrir hann spurningar og þær svo þungar að hún mundi ekki sjálf hafa getað leyst úr þeim; varð þá skugginn undarlegur í framan.

»Þessu getið þér ekki svarað«, mælti kóngsdóttirin.

»Þetta er í barnafræðum mínum«, sagði skugginn, »eg held jafnvel að skugginn minn þarna við dyrnar gæti leyst úr því«.

»Skugginn yðar!« sagði kóngsdóttirin, »það væri þó heldur en ekki merkilegt«.

»Eg segi ekki fyrir víst, að hann geti það«, sagði skugginn, »en vel gæti eg ímyndað mér það; hann hefir nú fylgt

mér í svo mörg ár og tekið eftir, — eg gæti ímyndað mér það, en með leyfi yðar hátignar vildi eg benda yður á, að honum þykir svo mikil fremd að því, að vera talin manneskja, að það verður að fara með hann eins og hverja aðrá manneskju, ef vel á að liggja á honum, en þess þarf, ef hann á að geta svarað vel«.

»Þetta líkar mér«, sagði kóngsdóttirin. Því næst fór hún til lærða mannsins við dyrnar og talaði við hann um sólina og tunglið og um mennina, hvernig þeir eru bæði hið ytra og innra, og svaraði hann öllu vel og viturlega.

»Hvílíkur má sá maður vera, sem hefir svo vitran skugga!« hugsaði hún með sér, »mikil blessuð hamingja mundi það vera fyrir þjóð mína og ríki, ef eg kysi hann fyrir eiginmann; — það geri ég!«

Og um það vóru þau ekki lengi að koma sér saman, kóngsdóttirin og skugginn, en enginn átti um það að vita fyr en hún kæmi heim í ríki sitt.

»Enginn, ekki einusinni skugginn minn«, sagði skugginn og hugsaði margt.

Komu þau nú í landið þar sem kóngsdóttirin annaðist stjórnina þegar hún var heima.

»Heyrðu, góði vinur!« sagði skugginn við lærða manninn, »nú er eg orðinn svo hamingjusamur og voldugur sem nokkur getur orðið, og nú ætla eg líka að gera meira en lítið fyrir þig. Þú skalt hafa æfivist hjá mér í höllinni, aka með mér í mínum konunglega vagni og hafa að launum hundrað þúsund ríkisdali á ári; en þú verður að láta menn kalla þig

skugga, hvern sem einn. Þú mátt ekki láta á því bera, að þú hafir nokkurn tíma verið maður, og þegar svo ber undir, sem ekki er nema einu sinni á ári, að eg sit á svölunum í sólskininu og lofa mönnum að sjá mig, þá verður þú að liggja við fætur mér eins og skugga hæfir. Þér að segja, ætla eg að eiga kóngsdótturina og í kvöld á brúðkaupið að vera«.

»Nei, þetta tekur þó engu tali«, sagði lærði maðurinn, »það vil eg ekki og það geri eg ekki; það væru svik við landið og við kóngsdótturina líka. Eg segi alt eins og er, að eg er maðurinn, en þú ert skugginn. Þú ert ekki nema gerfið tómt«.

»Enginn leggur trúnað á slíkt«, mælti skugginn, »vertu nú góður, að öðrum kosti kalla eg á hallarverðina«.

»Eg fer beint til kóngsdótturinnar«, sagði lærði maðurinn.

»En eg fer til hennar fyrst«, sagði skugginn, »og þú fer í myrkvastofu«,— og það varð hann að fara, því verðirnir hlýddu honum, sem þeir vissu að kóngsdóttirin ætlaði að giftast.

»Þú skelfur«, sagði kóngsdóttirin, þegar skugginn kom inn til hennar, »hefir nokkuð komið fyrir? Þú mátt ekki sýkjast undir kvöldið; nú á brúðkaupið að vera«.

»Mér hefir mætt það hræðilegasta, sem að höndum getur borið, og nú skaltu heyra! já, heilinn í svona skuggagreyi þolir ekki mikið — geturðu ímyndað þér það? — skugginn minn er orðinn vitlaus og heldur að hann sé maðurinn og að ég — hvað lízt þér? — að ég sé skugginn hans«.

»Það er hræðilegt«, sagði kóngsdóttirin, »það mun þó vera búið að loka hann inni?«

»Svo er víst; eg er hræddur um að honum batni aldrei».

»Veslings skuggi«, sagði kóngsdóttirin, »hann er sárilla farinn; það væri sönn velgerð að losa hann við þá litlu líftóru, sem í honum er, og þegar eg fer að hugsa um það, þá held eg brýna nauðsyn beri til, að ráð verði séð fyrir honum í kyrþey«.

»Hart er það reyndar, því hann var dyggur þjónn«, — sagði skugginn — og var sem hann andvarpaði.

»Mikið er þitt göfuglyndi«, sagði kóngsdóttirin.

Um kvöldið var öll borgin skrautlýst og fallbyssuskotin riðu af, — bumm! — og dátarnir heilsuðu með byssunum. Það var verið að halda brúðkaup. Þau kóngsdóttirin og skugg inn gengu út á svalirnar til að sýna sig og láta enn einu sinni fagna sér með húrra-ópi.

Lærði maðurinn heyrði ekkert af þeim látum; það var búið að taka hann af lífi.



# Farlami drengurinn.

Frá því er að segja, að á herragarði nokkrum bjuggu ágætis hjón á besta aldri. Þau höfðu auð og allsnægtir; þau vildu skemta sér og þau gerðu gott af sér. Þau vildu gera alla ánægða eins og þau vóru sjálf ánægð.

Um jólakvöldið stóð ljómandi vel skreytt jólatré í riddarasalnum gamla; eldur logaði í arinofninum og grenikvistir höfðu verið hengdir á litmyndaspjöldin gömlu. Þar vóru samankomin höfðingshjónin og gestir þeirra og var bæði sungið og dansað.

Nokkru fyr um kvöldið var haldin jólagleði í vinnufólksstofunni. Þar inni stóð líka stórt grenitré með logandi kertaljósum rauðum og hvítum, litlum dannebrogsflöggum, útkliptum álftamyndum og allavega litum pappírs-netjum fullum af »gottigotti«. Fátæku börnunum í sókninni hafði verið boðið

og mæðrum þeirra líka. Þær horfðu ekki svo mjög á tréð; þeim varð oftar litið til jólaborðanna, en á þeim lágu ullar- og léreftsdúkar, kjólaefni og buxnaefni. Já, þangað litu mæðurnar og stálpuðu börnin, það vóru ekki nema minstu krakkarnir, sem terðu fingurna eftir ljósunum, næfurgulls-glysinu og fánunum.

Þetta boðsfólk kom snemma um kvöldið og fékk til snæðings jólagraut og gæsasteik með rauðkáli. Þegar búið var að skoða jólatréð í krók og kring og gjöfunum var útbýtt, þá var púns til glaðnings á eftir, eitt glas á mann, og eplaskífur með.

Þegar heim var komið í fátæklegu stofurnar, var talað um matar-sæluna, og góðgjörðirnar, og vóru þá gjafirnar enn þá einu sinni vandlega skoðaðar.

Það var nú hún garða-Stína og hann garða-Óli. Þau vóru hjón og fengu húsnæði og daglegt brauð fyrir að pæla í garði herragarðshjónanna og reyta upp úr honum illgresið. Á hverri jólahátíð fengu þau sinn drjúga hlut í gjöfunum; þau áttu líka fimm börn, og öll vóru þau fimm börn fötuð af herragarðshjónunum.

»Þau eru góðgjörðasöm herragarðshjónin, húsbændur okkar«, sögðu þau, »en þau hafa líka efni á því og þau hafa sjálf ánægju af því«.

»Hér eru komin góð slitföt handa fjórum krökkunum«, sagði garða-Óli. »En því er hér ekkert handa kryplinum? Honum eru þau þó vön að hugnast eitthvað líka, þó ekki sé hann með í gildinu«. Það var elzta barnið, sem þau kölluðu »kryppil«; það var drengur og hét *Hans*.

Hann hafði fyrst framan af verið fjörugt og efnilegt barn, en svo varð hann alt í einu afllaus í fótunum hann gat ekki staðið né gengið og nú var hann búinn að vera rekkjulægur á fimta árið.

»Já, eitthvað fékk eg nú líka handa honum«, sagði móðirin, »en það er ekki mikið í það varið, það er ekki nema bók, sem hann getur lesið í«.

»Ekki verður hann feitur af því«, sagði faðirinn.

En hvað sem um það var, Hans varð bókinni feginn.



Hann var mesti skýrleiks drengur og gefinn fyrir bóklestur, en varði líka tíma sínum til vinnu og leitaðist við að verða að gagni á heimilinu eins og framast mátti vænta af honum, sem alt af var í rúminu. Hann hafði góða krafta í höndunum og þeim beitti hann óspart; hann prjónaði ullarsokka og enda heilar rúmábreiður; herragarðsfrúin hafði lokið lofsorði á þær og keypt þær.

Það var æfintýrabók, sem Hans hafði fengið; í henni var margt að lesa og mikið til íhugunar.

»Hún er ekki til nokkurs gagns hér á heimilinu,« sögðu foreldrarnir. »En lofum honum að lesa í henni, svo þreyir hann af þær stundirnar; hann getur ekki alt af verið að prjóna sokka«.

Vorið kom; grös og grænar jurtir tóku að spretta, og illgresið með, og því nafni mun mega nefna netlurnar og er þó svo fallega að orði komizt um þær í sálminum:

»Þó kóngar fylgdust allir að
Með auð og valds-tign hárri,
Þeir megnuðu' ei hið minsta blað
Að mynda á netlu smárri«.

Það var mikið að gera í garðinum, ekki að eins fyrir garðyrkjustjórann og lærisveina hans, heldur einnig fyrir garða-Stínu og garða-Óla.

»Þetta er ljóta slitið og stritið«, sögðu þau, »og þegar við svo erum búin að rífa upp úr göngunum og þrífa þá til, svo þeir verða fallegir, þá eru þeir óðara traðkaðir út og skemdir. Hér er eilífur gestagangur og vaðall á herragarðinum. Það kostar víst ekkert smáræði, en þau eru líka forrík, herragarðs-hjónin.«

»Því er undarlega skift niður«, sagði Óli. »Við erum öll börn Drottins vors«, segir presturinn. »Því er þá þessi feikna munur?«

»Það stafar af syndafallinu«, sagði Stína.

Þetta barst aftur í tal á milli þeirra um kvöldið, þar sem Hans kryppill lá og var að lesa í æfintýrabókinni.

Fátæktin með slitinu og stritinu hafði ekki að eins gert hjónin sigghörð í lófum, heldur einnig hörð í dómum og skoðunum; þetta efni var þeim ofvaxið, þau gátu ekki greitt úr því og urðu æ því ömrulegri og sárari í skapi sem þau töluðu lengur um það.

»Sumar manneskjur fá auðlegð og hamingju, en aðrir ekki annað en fátæktina. Hversvegna eigum við að gjalda for-

vitninnar í okkar fyrstu foreldrum? Við mundum ekki hafa farið eins að og þau tvö.«

»Jú, það hefðum við víst«, gall Hans við alt í einu, »það stendur alt hérna í bókinni«.

»Hvað stendur í bókinni?« sögðu foreldrarnir.

Og þá las Hans fyrir þau æfintýrið gamla um: *Viðhöggvarann og konu hans;* þau hallmæltu líka Adam og Evu fyrir forvitnina, sem orsök væri í ógæfu þeirra. Þá bar þar að konunginn í landinu. »Komið þið heim með mér«, sagði hann, »þá skuluð þið eiga eins gott og eg; þið fáið sjö rétti matar og einn skoðunarrétt. Hann er í lokaðri tarínu; á henni megið þið ekki snerta, því ef þið gerið það, þá er herra-sælan á enda«. »Hvað skyldi vera í tarínunni?« sagði konan. »Það varðar okkur ekki um«, svaraði maðurinn. »Já, eg er nú ekki forvitin« sagði konan, »mig langaði bara til að vita, hversvegna við megum ekki lyfta lokinu frá. Það er víst undir því eitthvert fyrirtaks hnossgæti«. »Bara það sé þá ekki einhver vélatilbúningur«, sagði maðurinn, »skammbyssuskot eða þvíumlíkt, sem gerir hvell og vekur hvern mann í húsinu«. »Það væri nú verra«, sagði konan og snerti ekki á tarínunni. En um nóttina dreymdi hana, að lokið lyfti sér sjálft, og kom þá ilmur af inndælasta púnsi eins og maður fær það best í brúðkaupsveizlum og erfisdrykkjum. Stór silfurpeningur lá þar og vóru letruð á hann þessi orð: »Ef þið drekkið af þessu púnsi, þá verðið þið hjónin ríkust í heimi og allir aðrir verða húsgangar«. Í sama bili vaknaði konan og sagði manninum draum sinn. »Þú hugsar of mikið um þetta, kona!« sagði

hann. »Nú, við getum létt undir lokið með hægð«, sagði konan. »Já, með hægð«, sagði maðurinn. Og konan lyfti upp lokinu ofur hægt. Þá stukku út tvær bráðkvikar mýslur og vóru óðara þotnar burt og horfnar inn í holu sína. »Góðar nætur?« sagði kóngurinn. »Nú getið þið farið og háttað heima hjá ykkur. Hallmælið nú ekki framar Adam og Evu; þið hafið sjálf verið eins forvitin og óþakklát«.

»Hvaðan er þessi saga komin í bókina?« mælti garða-Óli; »það er eins og hún væri stýluð upp á okkur; það er í henni töluvert umhugsunarefni.«



Daginn eftir fóru þau aftur til vinnu sinnar; þau steiktust af sólbakstrinum og urðu vot inn að skinni af rigningunni; innanbrjósts vóru þau full af ama og ógeðs-grillum, sem þau jórtruðu á með sjálfum sér.

Það var enn þá bjart fram eftir um kvöldið heima hjá þeim; þau vóru búin að borða mjólkurgrautinn sinn.

»Lestu aftur fyrir okkur söguna um viðhöggvarann«, sagði garða-Óli.

»Það eru svo margar ljómandi góðar sögur í þessari bók«, sagði Hans, »svo margar, sem þið ekki þekkið«.

»Já, þær kæri eg mig ekkert um«, sagði garða-Óli, »eg vil heyra þá söguna, sem eg þekki«.

Og nú hlýddu þau hjónin á hana aftur.

Og þau vóru fleiri kvöldin, sem hugur þeirra hvarf að þeirri sögu.

»Ekki get eg botnað í því almennilega,« sagði garða-Óli. »Það er með manneskjurnar eins og nýmjólkina. Sumir verða að nýmjólkurosti, sumir verða að þunnri mysu; sumir eru lánsmenn í öllu, sitja við háborðið alla daga og ekkert amar að þeim.«

Þetta heyrði Hans kryppill. Hann hafði vesöld í fótum, en vit í kolli. Hann las hátt fyrir þau úr æfintýrabókinni, las um *»manninn, sem ekkert amaði að«*. Já, hvar var þann mann að finna? Það var lífs áríðandi að finna hann.

Kóngurinn lá veikur og varð ekki læknaður, nema hann yrði færður í slitna skyrtu, er sá maður hefði í verið og slitið, sem sagt gæti um sig með sanni, að aldrei hefði neitt amað að sér.

Nú vóru gerðir menn til allra heimsins landa, til allra halla og herragarða, til allra, sem lifðu í gleði og velgengni, en væru þeir þaulspurðir, þá kom jafnan upp úr kafinu, að eitthvað hafði amað að þeim.

»Ekki hót að mér!« sagði svínahirðirinn; hann sat ofan til í grófinni við þjóðveginn, hló og söng; »ég er allra manna sælastur«.

»Láttu okkur þá fá skyrtuna þína«, sögðu þeir, sem sendir vóru, »þú skalt fá hálft kóngsríkið fyrir hana«.

En hann átti enga skyrtu og kallaði sig þó allra manna sælastan.

»Já, hann var kyndugur, karlinn sá«, sagði garða-Óli, og hlóu þau hjónin bæði svo dátt, að það var ár og dagur síðan þau höfðu jafndátt hlegið.

Þá kom skólahaldarinn þar aðvífandi.

»Mér þykir liggja heldur vel á ykkur núna«, sagði hann, »það ber eitthvað til fagnaðar hérna á heimilinu og heldur meira en minna. Hafið þið unnið í lotteríinu?»

»Nei, ekki er nú því að heilsa«, sagði garða-Óli, »það var hann Hans; hann var að lesa fyrir okkur í æfintýrabókinni; hann las um manninn, sem ekkert amaði að, og hann átti enga skyrtu, karlfuglinn. Hver hefir sína byrði að bera; maður er ekki einn um það. Það er þó alténd huggun«.

»Hvar hafið þið fengið þá bók?« sagði skólahaldarinn.

»Hann Hans fékk hana fyrir rúmu ári. Herragarðshjónin gáfu honum hana. Þau vita að hann èr svo mikið fyrir bókina og hann er líka farlama. Okkur hefði í það skifti komið betur að hann hefði fengið tvær strigalérefts-skyrtur. En bókin er merkileg. Það er eins og hún leysi úr því, sem maður er að brjóta heilann um«.

Skólahaldarinn tók bókina og opnaði hana.

»Látið þér okkur nú heyra sömu söguna aftur«, sagði garða-Óli, »Eg er ekki búinn að grípa hana almennilega enn.

Og svo verðið þér líka að lesa hina söguna um viðhöggvarann«.

Óli kærði sig ekki um meira en þessar tvær sögur og þær nægðu honum áfram. Þær vóru eins og tveir sólargeislar, sem skinu inn í hina fátæklegu stofu hjónanna og lýstu inn í þeirra döpru hugskot; milduðu mæðu-hugsanirnar og mýktu stirðlyndið.

Hans hafði lesið alla bókina spjalda milli, já, lesið hana mörgum sinnum. Æfintýrin báru hann út í heiminn, þangað sem hann komst ekki sjálfur af því að fæturnir gátu ekki borið hann.

Skólahaldarinn sat hjá rúmi hans; þeir töluðu saman og var það ánægja fyrir þá báða.

Upp frá þeim degi kom skólahaldarinn alloft til Hans þegar foreldrarnir vóru úti við verk sín. Hlýddi Hans með mesta athygli á gamla manninn, þegar hann var að segja honum frá hinu og þessu, frá stærð jarðarinnar og mörgum löndum, og frá því, að sólin væri næstum hálfri miljón sinnum stærri en jörðin og svo langt í burtu, að fallbyssukúla með fullum hraða þyrfti tuttugu og fimm ár til þess að komast frá sólinni til jarðarinnar, þar sem ljósgeislarnir frá sólinni væru ekki nema átta mínútur að berast til jarðarinnar.

Þetta veit nú hver skóladrengur, sem nokkurnveginn er að sér, en það var nýtt fyrir Hans og enn þá furðulegra en alt það, sem stóð í æfintýrabókinni.

Skólahaldarinn var vanalega boðinn svo sem tvisvar á ári til borðs hjá herragarðshjónunum, og einu sinni, er svo bar

undir, sagði hann þeim, hve mikilsverð æfintýrabókin hefði reynzt á fátæktarheimilinu, þar sem að eins tvær sögur í henni hefðu orðið til vakningar og blessunar; litli skýrleiksdrengurinn farlama hefði lesið þær og með því hefði hann vakið þar á heimilinu umhugsunarsemi og gleði, sem ekki var þar áður.

Þegar skólahaldarinn fór heim frá herragarðinum, lét frúin tvo silfurdali í lófa honum og bað hann færa Hans litla.

»Hann faðir minn og hún móðir mín verða að fá þetta«, sagði drengurinn, þegar skólahaldarinn færði honum peningana.

Og garða-Óli og garða-Stína sögðu: »Hann Hans tetrið er þó líka til gagns og blessunar«.

Fám dögum síðar bar svo til, er foreldrarnir vóru úti í garði við verk sitt, að herragarðsvagninum var ekið að húsdyrum þeirra hjóna, og var það frúin hjartagóða, sem komin var, til að votta gleði sína yfir því, að jólagjöfin hennar hafði orðið drengnum og foreldrunum til svo mikillar huggunar og ánægju.

Hún hafði meðferðis fínt brauð og ávexti og flösku með aldinsafa, og svo færði hún drengnum nokkuð, sem honum þótti enn vænna um; það var gylt búr með dálitlum svörtum fugli í, sem söng inndælislega. Búrið með fuglinum var sett upp á dragkistuna gömlu skamt frá rúmi drengsins; hann gat séð til fuglsins og heyrt til hans, og enda þeir, sem fóru um þjóðveginn, gátu heyrt til hans, er hann söng.

Garða-Óli og garða-Stína komu ekki heim fyr en frúin var farin; þau sáu og fundu hvað Hans var glaður, en þeim

sýndist nú að þessi gjöf, sem honum hafði verið gefin, væri ekki nema til ómaks og fyrirhafnar.

»Þetta ríka fólk er ekki svo nærgætið sem skyldi«, sögðu þau. »Eigum við nú líka að hafa fuglsins að gæta? Það fer svo að lokum að kötturinn tekur hann«.

Nú leið ein vika og önnur til; kötturinn hafði á þeim tíma oft verið í stofunni og ekki einusinni gert fuglinn hræddan hvað þá heldur gert honm neitt mein.

Þá kom nokkuð fyrir, sem tíðindum sætti. Það var einhverju sinni síðdegis, að Hans var aleinn heima; foreldrarnir og hin börnin vóru úti við vinnu. Hann hafði æfintýrabókina milli handa og las um konu fiskimannsins, sem fékk allar óskir sínar uppfyltar; hún vildi verða kóngur og hún varð það, hún vildi verða keisari og hún varð það; en svo vildi hún verða algóður guð, — og þá sat hún aftur í forargryfjunni, þar sem hún var í fyrstunni.

Sú saga átti nú ekkert skylt við fuglinn eða köttinn, en það hittist einmitt svo á, að það var sagan, sem hann var að lesa, þegar þessi viðburður varð; það leið honum aldrei úr minni síðar.

Búrið stóð á dragkistunni; kötturinn stóð á gólfinu og hvesti grængul augun upp á fuglinn. Það var eitthvað í svip kattarins eins og hann vildi segja við fuglinn: »Ó, hvað þú ert inndæll! feginn vildi eg éta þig«.

Þetta skildi Hans; hann las það beint út úr svip kattarins.

»Burt með þig, kisa!« kallaði hann, »ætlarðu ekki að snáfa út úr stofunni?«

Það var eins og kötturinn hnepti sig saman til að taka stökkið.

Hans gat ekki náð til hans, hann hafði ekkert, sem hann gæti hent í hann, nema kærasta dýrgripinn sinn, æfintýrabókina. Henni kastaði hann, en hún var orðin laus í bandinu, svo að bindið hraut til einnar hliðar, en bókin sjálf til hinnar. Kötturinn hopaði seinstígur til baka á stofugólfinu og gaut augunum upp á Hans, eins og hann vildi segja:

»Vertu ekki að sletta þér fram í þetta, Hans litli! eg get bæði gengið og stokkið, en þú getur hvorugt«.

Hans hafði ekki augun af kettinum og var órór mjög; fuglinn var það líka. Þar var enginn, sem á yrði kallað, og var eins og kötturinn vissi það; hann myndaði sig aftur til að stökkva. Hans veifaði rúmábreiðunni, en kötturinn var ekki vitund hræddur við hana, og þegar Hans hafði líka kastað henni á hann árangurslaust, þá stökk hann upp á stólinn og þaðan í gluggakistuna, og var þá kominn nær fuglinum.

Hans fann blóðið glóðhitna í æðum sér, en hann var ekki að hugsa um það; hann hugsaði ekki nema um köttinn og fuglinn; hann var ekki sjálfbjarga ofan úr rúminu, hann gat ekki staðið á fótunum og enn síður gengið. Og nú var sem hjartað berðist upp við kverkar honum, er hann sá hvernig kötturinn einhenti sér úr glugganum beint yfir á dragkistuna og hratt á búrið svo að það valt um.

Fuglinn flögraði innan í búrinu ærður af hræðslu.

Hans hljóðaði upp yfir sig; hann kiptist allur við og í hugsunarleysi stökk hann ofan úr rúminu, og þaðan að dragkistunni, kipti niður kettinum og hélt um búrið fastatökum, með fuglinum í dauðskelkuðum. Hljóp hann síðan með búrið í hendinni út um húsdyrnar og út á veginn.

Tárin flóðu af augum honum fyrir fagnaðar sakir; hann kallaði hátt með feginslátum: »Eg get gengið, eg get gengið«.

Hann hafði fengið heilsuna aftur; slíks eru dæmi og nú kom það fram á honum.

Skólahaldarinn bjó skamt þaðan, og nú hljóp Hans þangað berfættur á skyrtunni og treyjunni og með fuglinn í búrinu.

»Eg get gengið«, kallaði hann, »guð minn góður!« og hann var grátkjökrandi af eintómum fögnuði.

Nú varð mikil gleði heima hjá garða-Óla og garða-Stínu. »Meiri gleðidag en þennan getum við ekki lifað«, sögðu þau bæði.

Hans var boðaður heim á herragarðinn, en þá leið hafði hann ekki gengið í mörg ár; það var eins og trén og hnotrunnarnir, sem hann þekti svo vel, kinkuðu kolli til hans og segðu: »Góðan daginn, Hans! velkominn hingað!« Sólin skein í andlit houum og hún skein beint inn í hjarta hans.

Ungu ágætis-hjónin á herragarðinum létu hann sitja hjá sér og mátti sjá á þeim að þau vóru eins fegin eins og drengurinn væri þeirra eigið barn.

En glöðust allra var herragarðsfrúin, sem hafði gefið honum æfintýrabókina, — gefið honum litla söngfuglinn. Fuglinn var nú reyndar dauður, — dauður af hræðslunni, en það var

eins og hann hefði verið meðalið til þess að Hans fékk heilsuna aftur, og bókin hafði verið til andlegrar vakningar fyrir hann og foreldrana; hann hafði hana enn, og hana vildi hann geyma og lesa, hvað gamall sem hann yrði. Nú gat hann líka sjálfur orðið foreldrum sínum að liði. Hann vildi læra einhverja handiðn, helzt af öllu bókband, »því þá«, sagði hann, »get eg fengið allar nýjar bækur að lesa«.

Að áliðnum degi boðaði herragarðsfrúin foreldrana á fund sinn. Þau herragarðshjónin höfðu átt tal saman um Hans. Hann var frómhjartaður og efnilegur drengur, sem bæði var gefinn fyrir bækur og hafði námsgáfur góðar. Guð styrkir það, sem gott er, og sannaðist það hér.

Það kvöldið lá einstaklega vel á hjónunum, er þau komu heim frá herragarðinum, einkum þó á Kristínu, en viku síðar grét hún, því þá lagði Hans litli á stað; hann var þá kominn í góð föt. Hann var góður drengur, en nú átti hann að fara langt í burt yfir saltan sjó; hann átti að ganga í skóla, — latínuskóla —, og mundi því líða svo árum skifti þangað til foreldrarnir sæju hann aftur.

Æfintýrabókina fékk hann ekki að hafa með sér, foreldrarnir vildu halda henni í minningar skyni. Og faðirinn las oft í henni, en aldrei nema tvær sögurnar, því þær þekti hann.

Og þau fengu bréf frá Hans, hvert öðru ánægjulegra. Hann var hjá góðu fólki og átti við góð kjör að búa; skemtilegast af öllu sagði hann sér þætti að ganga í skóla, því þar

mætti svo margt læra og fræðast um; hann óskaði sér að eins að hann mætti verða hundrað ára og svo með tíð og tíma skólahaldari«.

»Ef við nú lifðum það,« sögðu foreldrarnir og tókust fast í hendur eins og við altarisgöngu.

»Já, merkilegt er þetta, sem komið hefir fyrir hann Hans«, sagði Oli. »Drottinn hugsar líka um fátæks manns barn; það átti að sýna sig á kryplinum okkar; er það ekki því líkast, sem hann Hans læsi það upp fyrir okkur úr æfintýrabókinni?«



# Svínahirðirinn.

Einusinni var fátækur kóngssonur; hann átti kóngsríki, sem var ofurlítið, en það var þó altént nógu stórt til þess að það mátti gifta sig upp á það, og það vildi hann nú.

Nú var það reyndar nokkuð mikil dirfska af honum, að hann þorði að segja við keisaradótturina: »Viltu mig?« en það þorði hann nú samt, því hann var frægur víða um lönd; það vóru kóngsdætur svo tugum skifti, sem mundu hafa þakkað honum fyrir í tilbót, en hún var nú ekki rétt á því.

Nú skulum við heyra.

Á leiði kóngsins, föður hans, óx rósatré, einstaklega fallegt rósatré. Það bar ekki blóm nema fimta hvert ár og það að eins eitt blóm, en það var rós, sem angaði svo sætt að ef maður þefaði af henni, þá gleymdi maður öllum sorgum og áhyggjum. Kóngssonurinn átti líka næturgala, sem var svo mikill söngfugl, að það var eins og öll fögur sönglög væru saman komin í barka hans. Þessa rós og þennan næturgala

átti nú keisardóttirin að fá, og var hvort um sig látið í silfurhylki og henni sent.

Keisarinn lét bera sendingarnar á undan sér inn í stóra salinn; var dóttir hans þá í »gestakomuleik« með hirðmeyjum sínum; þær gerðu ekki annað. Þegar hún sá stóru hylkin með gjöfunum í, þá klappaði hún saman lófunum af fögnuði.

»Eg vildi það væri dálítil kisa«, sagði hún, en þá var það rósin fallega, sem upp kom.

»Nei, hvað hún er snoturlega gerð!« sögðu allar hirðmeyjarnar.

»Hún er meira en snotur, hún er fögur«, sagði keisarinn.

En keisaradóttirin tók á henni og lá henni þá við að gráta.

»Fý, pabbi!« sagði hún, »hún er ekki tilbúin, hún er náttúrleg«.

»Látum okkur nú fyrst sjá, hvað í hinu hylkinu er, áður en við reiðumst«, mælti keisarinn, og kom þá upp úr því næturgalinn; hann söng svo yndislega að það var enginn hægðarleikur svona fyrsta kastið að segja neitt ílt um hann.

»*Superbe! charmant!*« sögðu hirðmeyjarnar, því þær töluðu allar frönsku, hver annari verr.

»Það er einstakt«, sagði einn aldraður hirðarherra, »hvað þessi fugl minnir mig á spiladós hásællar keisaradrotningarinnar; æ, já! það er alveg sami hreimurinn, sami framburðurinn«.

[1]) **Frb. süperb = ágætt, fyrirtak.**

[2]) **Frb. sjarmang = inndælt.**

»Já«, sagði keisarinn og grét eins og barn.

»Eg vona þó að hann sé ekki náttúrlegur«, sagði keisaradóttirin.

»Jú, það er náttúrlegur fugl«, sögðu þeir, sem höfðu komið með hann.

»Jæja, látið þá þann fugl fljúga«, sagði keisaradóttirin og ekki vildi hún með nokkru móti leyfa að kóngssonurinn kæmi.

En hann var ekki svo gerður að hann heyktist við þess konar; hann málaði sig í framan með mórauðum og svörtum lit, dró húfuna langt niður um höfuð sér og barði á dyr.

»Góðan daginn, keisari!« sagði hann, »gæti eg ekki orðið ráðinn til þjónustu hér í höllinni?«

»Já, það eru nú svo margir, sem sækja«, sagði keisarinn, »en látum sjá, — mér er þörf á pilti, sem getur gætt svínanna, því af þeim höfum við mikla mergð«.

Kóngssonurinn fékk nú það embætti, að vera keisaralegur svínahirðir. Til íbúðar var honum fengin léleg kytra niðri við svínastíuna og þar varð hann að kúra; en hann sat allan daginn við vinnu og þegar kvöld var komið, var hann búinn að smíða dálítinn pott einstaklega snotran; hann var kringsettur með bjöllum og jafnskjótt sem sauð í honum, þá klingdu þær svo fagurt og léku gamla lagið:

»Æ, minn kæri Ágústín!
Alt horfið burt, alt horfið burt«.

En það listilegasta, sem þessum potti fylgdi var það, að þegar maður hélt fingrinum í reykjargufunni upp úr honum,

þá mátti óðara lykta, hvaða mat væri verið að búa til á hverri einustu eldstó í allri borginni. Þetta var nú reyndar af alt öðru tagi en rósin.

Þá bar þar að keisaradótturina með öllum hirðmeyjunum og vóru þær á skemtigöngu, og er hún heyrði lagið, þá stóð hún við í sömu sporum og varð svo ánægjuleg í framan, því hún kunni líka að leika lagið: »Æ, minn kæri Ágústín« ; það var eina lagið, sem hún kunni, en það lék hún líka reiprennandi.

»Það er einmitt lagið, sem eg kann«, sagði hún ; »þetta hlýtur þá að vera mentaður svínahirðir. Heyrið þið ! það verður einhver ykkar að fara inn og spyrja, hvað hljóðfærið kosti«.

Ein af hirðmeyjunum varð þá að fara inn, en tréskó tók hún á fætur sér.

»Hvað seturðu upp fyrir þennan pott ?« sagði hirðmeyjan.

»Eg vil fá tíu kossa hjá keisaradótturinni«, sagði svínahirðirinn.

»O, guð varðveiti okkur !« sagði hirðmeyjan.

»Já, það getur nú ekki verið minna«, sagði svínahirðirinn.

»Nú, nú, hvað segir hann ?« spurði keisaradóttirin.

»Eg get sannarlega ekki fengið af mér að segja það«, mælti hirðmeyjau, »það er svo ljótt«.

»Þú getur þá hvíslað«; og hirðmeyjan hvíslaði.

»Ekki nema það, hann er dónalegur«, sagði keisaradóttirin og fór sína leið, en þegar hún hafði gengið spölkorn, hljómuðu bjöllurnar svo yndislega:

»Æ, minn kæri Ágústín!
Alt horfið burt, alt horfið burt«.

»Heyrðu!« sagði keisaradóttirin, »spurðu, hvort hann vilji tíu kossa hjá hirðmeyjunum mínum«.

»Nei, eg held eg þakki fyrir«, sagði svínahirðirinn, »eg vil fá tíu kossa hjá keisaradótturinni, að öðrum kosti læt eg ekki pottinn«.

»Ósköp er það nú leiðinlegt«, sagði keisaradóttirin, »en þá verðið þið að standa fyrir á meðan, svo enginn sjái.«

Og hirðmeyjarnar skipuðu sér fyrir og breiddu út kjóla sína og fékk svo svínahirðirinn kossana tíu, en keisaradóttirin fékk pottinn.

Nú varð glatt á hjalla. Alt kvöldið og allan daginn sauð potturinn; það var engin sú eldstó í allri borginni, að þær ekki vissu hvað eldað var á henni, hvort heldur hjá kammerherranum eða ræflaskóaranum. Hirðmeyjarnar dönsuðu og klöppuðu saman lófunum.

»Við vitum hver á að borða sætsúpu og pönnukökur, við vitum hver á að borða graut og rifjasteik. Er það ekki fróðlegt?«

»Jú, stórfróðlegt«, sagði yfir-fræðifóstran.

»Já, — en verið þið nú þagmælskar, því ég er dóttir keisarans.«

»Já, það veit hamingjan, það skulum við vera«, sögðu þær allar.

Nú er að segja af svínahirðinum, eða réttara kóngssyninum, — en ekki vissu þær betur en að hann væri óbreyttur svínahirðir — hann lét ekki daginn líða svo að hann hefði

ekki eitthvað fyrir stafni, — og nú smíðaði hann hrossabrest. Þegar hann snéri honum, þá hljómuðu allir þeir valsar, hopsar og polkar, sem þektir vóru frá heimsins fyrstu sköpun.

»Nei, þetta er »*superbe*«, sagði keisaradóttirin í því hún gekk fram hjá, »aldrei hef eg heyrt fallegri »músík«. Heyrðu, farðu inn og spurðu, hvað hljóðfærið kosti; en ekki kyssi ég aftur«.

»Hann vill fá hundrað kossa hjá keisaradótturinni«, sagði hirðmeyjan, sem inn fór til að spyrja.

»Er hann vitlaus?« sagði keisaradóttirin og gekk áfram; en er hún hafði gengið spölkorn, staldraði hún við. »Maður verður að uppörfa listina«; sagði hún, »ég er keisaradóttir. Segðu honum að hann skuli fá tíu kossa eins og í gær; það, sem á brestur, getur hann fengið hjá hirðmeyjunum mínum«.

»Já, en ekki er okkur um það«, sögðu hirðmeyjarnar.

»Hvaða vitleysa!« sagði keisaradóttirin; »þegar ég kyssi hann, þá getið þið gert það líka; minnist þess, að hjá mér fáið þið kost og kaup«. Tjáði þá hirðmeyjunum ekki annað en að fara inn til hans aftur.

»Hundrað kossa vil eg hafa hjá keisaradótturinni« sagði hann, »eða hvort okkar um sig heldur sínu«.

»Hvaða þys skyldi þetta vera þarna niður frá hjá svínastíunni?« sagði keisarinn, sem rétt í þessu hafði gengið fram á svalirnar. Hann néri á sér augun og setti upp gleraugun. »Nú, það eru hirðmeyjarnar, sem eru þarna að ólátast; eg verð víst að fara ofan til þeirra«; — og hann setti upp inniskóna sína, sem vóru troðnir niður á hælunum.

Það kynni nú að vera, að hann flýtti sér.

Þegar hann var kominn niður í garðinn, gekk hann hljóðlega, en hirðmeyjarnar áttu svo annríkt með að telja kossana, til þess að alt yrði rétt og svínahirðirinn fengi ekki of marga og ekki heldur of fáa; þær urðu því ekkert varar við keisarann. Hann tylti sér þá á tá.

»Hvað er þetta?« sagði hann, þegar hann sá þau kyssast, og lamdi þau í höfuðið með öðrum skónum sínum rétt í því er svínahirðirinn fékk sjötugasta og sjötta kossinn.

»Snáfið þið burt«, sagði keisarinn, því hann var reiður, og bæði tvö, dóttir hans og svínahirðirinn, vóru flæmd burt úr keisararíki hans.

Þarna stóð hún nú grátandi; svínahirðirinn skammaði hana og hellirigning dundi niður úr lofti.

»Æ, eg veslingur!« sagði keisaradóttirin, ó, að eg hefði tekið fríða kóngssyninum! Æ, mig ógæfusama!«

En svínahirðirinn gekk bak við tré og þurkaði svarta og mórauða litinn af andliti sínu, varpaði af sér vondu flíkunum og gekk nú fram í kóngssonar skarti sínu og var nú svo fríður ásýndum að keisaradóttirin varð ósjálfrátt að hneigja sig fyrir honum.

»Eg er búinn að fá á þér fyrirlitningu«, sagði hann, »þú vildir ekki eiga ærlegan kóngsson. Þú kunnir ekki að meta rósina og næturgalann, en svínahirðinn gaztu kyst fyrir skröpur einar. Þetta hefirðu nú fyrir«.

Og hann gekk inn í kóngsríki sitt, skelti aftur hurðinni og skaut fyrir loku og svo gat hún staðið fyrir utan og sungið:

»Æ, minn kæri Ágústín,
Alt horfið burt, alt horfið burt.«

# Það er alveg áreiðanlegt.

»Það er ljóta sagan«, sagði hæna nokkur, og það í því hverfi bæjarins þar sem sagan ekki hafði gerzt. »Það er ljóta sagan, sem upp er komin í hænsnahúsinu; eg þori ekki að sofa ein í nótt; það vill til að við sitjum margar saman hérna á spítunni«. Og sagði hún þá söguna svo að fjaðrirnar risu á hinum hænunum og haninn drap niður kambinum.

Það er alveg áreiðanlegt.

En við byrjum nú á fyrstu upptökunum og þau vóru í öðru hverfi bæjarins, í hænsnahúsi nokkuru. Sólin rann og hænsnin flugu upp og settust á spítur sínar. Þeirra á meðal var hæna nokkur hvítfjöðruð og fótlág, sem varp eggjum sínum með stakri reglusemi og var í alla staði virðingarverð hæna; þegar hún var sezt upp, reytti hún sig með nefinu og datt þá af henni dálítil fjöður.

»Þarna fór þessi«, sagði hænan; »því meira sem eg reyti mig, því fallegri verð eg«. Og það sagði hún með kátínu,

því hún var glaðlyndust í þeim hænsnahóp, en að öðru leyti virðingarverð mjög, svo sem áður er sagt; og eftir það sofnaði hún.

Það var dimt alt í kring, hæna sat hjá hænu og sú, sem næst henni sat, svaf ekki; hún heyrði og hún heyrði ekki eins og maður á að heyra í þessum heimi, svo að maður verði ekki órór í geðinu út af því sem fyrir eyrun ber; hún varð fyrir hvern mun að segja næstu hænunni frá því: »Heyrðirðu hvað sagt var? Eg nefni ekki neina, en það er ein hænan, sem vill reyta sig til þess að verða falleg; væri ég hani, þá legði eg fyrirlitning á hana«.

Beint uppi yfir hænsnunum sat uglan með uglupabba og uglubörnum; sú fjölskylda hafði skarpa heyrn; þau heyrðu hvert orð, sem hænan, grannkona þeirra, sagði, og þau ranghvolfdu í sér augunum og uglumamma gustaði um sig með vængjunum: »Verið þið ekki að heyra á það, en þið munuð hafa heyrt hvað sagt er. Eg heyrði það með mínum eigin eyrum og mikið má eg heyra áður en mín eyru detta af. Það er ein af hænunum, sem hefir svo hraparlega gleymt, hvað hænu sæmir, að hún situr og reytir af sér allar fjaðrirnar og lætur hanann horfa á það.

»Hneykslið ekki smælingjana«, sagði uglupabbi, »það er ekki fyrir börn að heyra slíkt«.

»Eg ætla nú samt að segja uglunni, grannkonu minni, frá því, það er svo einstaklega heiðvirð ugla í allri umgengni«, og í sama bili flaug uglumamma til grönnu sinnar.

»Hú, hú!« vældu þær báðar og það svo að heyrðist

niður til dúfnanna í dúfnaskýlinu hjá gagnbúanum. »Hafið þið heyrt það? hafið þið heyrt það? ú-hú! það er ein hæna, sem hefir reytt af sér allar fjaðrirnar hanans vegna; hún króknar af kulda, ef hún ekki er króknuð, — ú-hú!«

»Hvar þá? hvar þá?« kurruðu dúfurnar.

»Í húsagarði gagnbúans; það er svo gott sem eg hefði séð það með eigin augum; það liggur við að það sé ósæmilegt til frásagna, en það er alveg áreiðanlegt«.

»Við trúum, við trúum hverju einasta orði«, sögðu dúfurnar og kurruðu svo heyrðist niður í hænsnagarðinn hjá þeim. »Það er ein hæna, sumir segja enda tvær, sem hafa reytt af sér allar fjaðrirnar, til þess að vera ekki eins í hátt og hinar og til þess að leiða að sér athygli hanans. Það er hættuspil; maður getur orðið innkulsa af því og dáið úr köldusótt, enda eru þær báðar dauðar«.

»Vaknið, vaknið!« galaði haninn og flaug upp á skíðgarðinn; hann var með stýrurnar í augunum, en hann galaði samt: »Þrjár hænur eru dauðar af lánlausri ást á hana; þær hafa reytt af sér allar fjaðrirnar; það er ljóta sagan; eg vil ekki halda henni hjá mér, látið hana lengra fara«.

»Látið lengra fara«, tístu leðurblöðkurnar, og hænurnar klökuðu og hanarnir göluðu: »Látið lengra fara, látið lengra fara!« og barst svo sagan úr einu hænsnahúsi í annað og að lokum til þess staðar, sem hún hafði haft sín fyrstu upptök.

»Það eru fimm hænur« sagði sagan, »sem reytt hafa af sér allar fjaðrirnar, svo að sjá mætti, hver mest hefði megrazt af ástarþrá til hanans, og svo hjuggu þær hver aðra til blóðs

og duttu dauðar niður, sér og sínum til smánar og svívirðingar, en eigandanum til stórskaða.

Og hænan, sem mist hafði litlu, lausu fjöðrina, kannaðist auðvitað ekki áftur við sína eigin sögu, og með því að hún var heiðvirð hæna, þá sagði hún: »Eg fyrirlít þessi hænsni; en það eru fleiri til af sama tagi. Slíku og öðru eins á ekki að þegja yfir og skal eg gera mitt til að saga þessi komi í blöðin, svo að hún berist um land alt; það er þeim mátulegt þessum hænsnum og ugluhyskinu líka«.

Það kom líka í blöðin og var prentað, og það er alveg áreiðanlegt, að *ein lítil fjöður getur orðið að fimm hænum*.



# Síðasta perlan.

Það var á einu ríkisheimili, farsældarheimili; allir þar inni vóru glaðir og kátir, húsbændurnir, hjúin og vinirnir, því á þessum degi var sonur og erfingi í heiminn borinn; móðurinni og barninu leið vel.

Lampinn í svefnherberginu var hjúpaður til hálfs; þar var notalegt inni og héngu þykk tjöld úr dýrindis silki fyrir gluggum og vóru dregin þétt saman. Gólfábreiðan var þykk og mjúk sem mosi; alt var eins og í haginn búið til að blunda, sofa og njóta þægilegrar hvíldar; það gerði vökukonan líka; hún svaf og það mátti hún. Því hér var alt svo blessunarríkt og ánægjulegt.

Verndarandi hússins stóð við höfðalagið; yfir barnið, við brjóst móðurinnar breiddist eins og net úr blikandi stjörnum; hver þeirra um sig var heillaperla. Allar lífsins góðu dísir höfðu fært hinu nýfædda barni gáfur sínar; heilbrigði, auðlegð

ást og hamingja lýstu hér í ljóma, í stuttu máli alt, sem framast verður óskað hér á jörðu.

»Alt hefir hingað verið fært og gefið«, sagði verndarandinn.

»Nei!« heyrðist sagt rétt hjá; það var hinn góði engill barnsins. »Ein dís er ókomin enn með gáfu sína, en hún kemur, hún kemur einhverntíma með hana, þó það kunni að dragast árum saman. Síðustu perluna vantar«.

»Vantar? hér má ekkert vanta, en sé svo, þá leitum hana uppi, þessa voldugu dís; förum að finna hana«.

»Hún kemur, hún kemur einhverntíma; hennar perlu verður að hafa til þess að kerfið geti orðið bundið saman«.

»Hvar býr hún? hvar á hún heima? seg mér það; eg fer og sæki perluna«.

»Nú, þú vilt það«, sagði hinn góði engill barnsins; »eg skal leiða þig á hennar fund, hvar svo sem hennar verður að leita; hún hefir engan varanlegan samastað; hún kemur í höll keisarans og kofa kotungsins; hún fer ekki svo fram hjá nokkrum manni, að ekki verði eitthvað til menja og öllum færir hún einhverja gjöf, hvort sem það nú er heill heimur eða eitthvert leikfang. Það fer ekki heldur hjá því, að hún muni líka hitta þetta barn. Þér mun þykja, að ekki sé ráð nema í tíma sé tekið, og er þá best við förum að sækja perluna, seinustu perluna í allri þessari auðlegð«.

Og nú svifu þeir hönd í hönd til þess staðar, sem dísin dvaldi á um þennan tíma.

Það var stórhýsi með dimmum göngum og tómum stof-

um, og var þar einhver undarleg kyrð á öllu; vóru þar opnir gluggar í röð, svo að hráslagaloftið að utan lagði inn í húsið, en fyrir gluggunum héngu hvít tjöld löng og síð og blöktu fyrir vindsúgnum.

Á miðju gólfinu stóð opin líkkista og í henni lá lík konu einnar, sem dáin var í blóma aldurs síns; hún var alþakin yndislegum, glænýjum rósum, svo að ekki sást annað en hendurnar fögru lagðar í kross og andlitið svipgöfga, sem dýrðlegt var orðið í dauðanum með hinum háleita blæ alvörunnar og helgunarinnar í guði.

Við kistuna stóð maður hennar og börn; það var heill hópur; hið minsta hafði hann á handlegg sér; þau kvöddu hana í síðasta sinn, og maðurinn kysti á hönd hennar, höndina, sem nú var eins og visið laufblað, en hafði áður veitt þeim hjúkrun og þægindi með krafti sínum og kærleika. Beisk og höfug tár hrundu í stórum dropum niður á gólfið; en ekki var þar talað nokkurt orð. Í þeirri þögn bjó heill sorgarheimur. Og þau gengu burt með grátekka, hægt og stilt.

Ljós logaði þar inni, blaktandi í vindinum og teygði upp rautt skarið. Ókunnugir menn komu inn, lögðu lokið yfir hina framliðnu og slóu hart á naglana; hamarshöggin buldu svo að undir tók í herbergjum og göngum hússins; þau ómuðu til hjartna þeirra, sem áttu um svo sárt að binda.

»Hvert ertu að fara með mig?« sagði verndarandinn; »ekki býr hér nein dís, sem á þá perlu, er teljast megi með bestu gjöfum lífsins«.

»Á þessum stað býr hún, hérna á þessari helgu stund«,

sagði verndarengillinn og benti út í horn, og þar sem móðirin hafði setið í lifanda lífi innan um blóm og myndir, þar sem hún eins og heilladís hússins hafði horft kærleiksríkum augum til bónda síns, barna og vina, þar sem hún hafði lýst eins og sólargeisli á heimilinu og verið sameiningarband og hjarta alls og allra, sem þar vóru, — þar sat nú ókunn kona í síðum klæðum; það var *Sorgin*, sem nú var orðin húsfreyja og móðir í stað hinnar framliðnu. Brennandi tár hrundi niður í skaut hennar, og varð að perlu; hún glitraði með öllum regnbogans litum og engillinn greip hana og stóð af henni birta eins og af stjörnu með sjölitum ljóma.

»Sorgarperluna, síðustu perluna má ekki vanta ; af henni eykst hinum öðrum perlum ljómi og máttur. Hér máttu sjá litaskraut friðarbogans, — friðarbogans, sem tengir jörðina við himininn. Í hvert sinn, er einhver ástvinur deyr frá oss, þá eignumst vér á himnum einum vininum fleira, sem vér þráum. Vér horfum úr náttmyrkri jarðarinnar upp til stjarnanna, upp til fullkomnunarinnar. Virtu fyrir þér sorgarperluna ; í henni eru fólgnir Psykke-vængirnir, sem bera oss burtu héðan«.

# Við hið yzta haf.

---

Tvö stór hafskip höfðu verið gerð út í norðurheimskautsferð til að kanna takmörk landanna í nyrztu höfum og freista hve langt mannlegri orku mætti auðið verða að brjótast áfram þar um slóðir. Ár og dag út höfðu skipverjar verið að svalka þar í þoku og ís og átt í miklu vosi og erfiði; nú vóru komnar veturnætur og sól af lofti, og nú var samfelt langnætti fyrir höndum í margar, margar vikur; alt umhverfis var fjalfella af ís og í henni lágu skipin við festar; fönnin lá í stórsköflum og höfðu menn gert sér snjóhús, sem vóru í laginu eins og býflugnakarfir; sum vóru á stærð við fornmannahauga vora, en sum ekki stærri en svo að tveir eða fjórir menn gátu komizt fyrir í þeim. Ekki var dimt, það var öðru nær; norðurljósin loguðu þjótandi, rauð og blá; það var stórkostlegur flugeldagangur, sem ekki varð lát á, og sló birtunni niður á snjóinn; það var eitt einasta ljómandi rökkur. Þegar sem bjartast var,

komu hópar þarlendra manna akandi í sleðum á ísnum; vóru þeir skringilegir útlits í loðnum skinnfötum og komu með kynstur af skinnum, svo að þá urðu auðfengnar gólfábreiður í snjóhúsin, og jafnframt komu skinnin skipverjum í góðar þarfir fyrir undirsængur og rekkjuvoðir, og hreiðruðu þeir um sig undir snjóræfrinu og kendu ekki kulda, þó frostharkan fyrir utan væri svo mikil, að aldrei er neitt þvílíkt hjá oss um hávetur, þegar kaldast er. Hér hjá oss var enn þá haust og um það vóru þeir að hugsa þarna norður við íshjarann; þeir mundu eftir sólskininu í átthögum sínum og rauðgula laufinu á trjánum. Stundaklukkan sýndi þeim, að það var kvöld og háttatími, og í einu af snjóhúsunum vóru þegar háttaðir tveir; hafði sá yngri haft með sér að heiman biflíu, sem amma hans hafði gefið honum áður en hann lagði á stað, og var biflían hans besti og dýrmætasti fjársjóður. Á hverri nóttu hafði hann hana undir höfðalaginu, og vissi hann frá bernskuárunum hvað í henni stóð. Á hverjum degi las hann einhvern kafla í henni og þegar hann lá í fleti sínu, þá varð það honum svo huggunarríkt, þegar honum runnu í huga þessi helgu orð: »*Þó eg tæki vængi morgunroðans og byggi við hið yzta haf, þá mundir þú samt einnig þar leiða mig og þín hægri hönd halda mér föstum*«, — og meðan þessi orð sannleikans og trúarinnar vóru honum í huga, lét hann aftur augun og svefninn kom og draumurinn kom, sem færir andanum opinberun frá guði; það var sálin, sem lifði og iðjaði þessa stundina, meðan líkaminn naut hvíldar; og hann fann og skynjaði; það var eins og hann heyrði sönglög við gömul og ástkær ljóð, sem hann kunni;

það andaði a honum svo blítt, svo sumarhlýtt, og úr bóli sínu sá hann skínandi birtu yfir sér eins og geisla legði inn um snjóhvolfið að ofan; hann lyfti upp höfðinu; þetta skínandi hvíta vóru ekki veggirnir eða ræfrið, það vóru stórir vængir, sem stóðu út af öxlum engils, og hann horfði upp í hina blíðu, bjartljómandi ásjónu hans. Og það var upp úr blöðum hinnar helgu bókar, sem engillinn lyfti sér, eins og upp úr bikar liljublóms, og hann breiddi vítt út vængi sína, og veggir snjóhússins sigu niður í kringum hann, eins og létt og loftkend þokublæja; grænu merkurnar heima og hæðirnar með rauðbrúnu skógunum lágu alt umhverfis í sólskinsblíðu og logni á fögrum haustdegi; hreiðrið storksins var tómt, en eplin héngu enn þá á villi-apaldrinum, þó laufið væri fallið; það stirndi á rós-berin og starinn söng í litla, græna búrinu yfir glugga bóndastofunnar, heimilisins hugumkæra. Starinn brýndi sönghljóðin á laginu, sem honum hafði verið kent, og amma hengdi arfa utan um búrið, eins og sonarsonurinn hafði verið vanur að gera, og járnsmiðsdóttirin unga og fríða stóð við brunninn, tók upp vatn í fötu og kinkaði kolli við ömmu, og amma benti henni og sýndi henni bréf, sem komið var langar leiðir að. Á þessum morgni var það komið frá köldu löndunum, frá sjálfu norðurheimskautinu, þar sem sonarsonurinn var undir verndarhendi Drottins. Og þau hlóu og grétu, — og hann, sem var svo langt í burtu, innan um ísinn og snjóinn, hann, sem var í andans heimi undir vængjum engilsins, hann sá og heyrði alt og hló og grét með þeim. Og það vóru lesin hátt upp úr bréfinu þessi orð biflíunnar: —

*»Við hið yzta haf mun hans hægri hönd halda mér föstum«* — Það ómaði alt umhverfis eins og fegursti sálmasöngur og engillinn breiddi vængi sína eins og blæju yfir sofandann. Draumurinn var á enda. Það var svartamyrkur í snjóhúsinu, en biflían lá undir höfðalagi sonarsonarins og trúin og vonin var í hjarta hans — »við hið yzta haf«.



